1857.

# Dr. Hjaltalín og vísindin,

eða

## Svar upp á rit hans:

„Vísindin, reynslan og homöopatharnir“.

# Dr. Hjaltalín og vísindin,

eða

## Svar upp á rit hans:

## „Vísindin, reynslan og homöopatharnir“.



AKUREYRI 1857.

Í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,
af H. Helgasyni.

„Vjer erum því alvanir, að menn svívirði það, sem þeir hafa ekki vit á".
*Göthe (Faust).*

Yður, kæru landar, er þegar kunnugt, að yfirlæknir þessa lands dr. Hjaltalín, hefur síðan í fyrra að homöopathían var nefnd á nafn í Norðra og Skírni, hvað eptir annað reynt til að sýna og sanna: að fræði þessi sje „einber hjátrú og ósannindi", fyrst með greininni í Þjóðólfi í fyrra vor, því næst með brjefunum til ritstjóra Norða og norðlenzku bændanna, og seinast með riti sínu: „Vísindin, reynslan og homöopatharnir", sem einna mest mun nú eiga að kveða að. Það má nú skoða allar þessar ritgjörðir eins og eina heild að því leyti sem blærinn og andinn er sá sami í þeim öllum. Höfundinn hefur vantað sannfærandi röksemdir og því orðið í þeirra stað að hjálpa sjer með lygasögum um homöopathana og drembilegum lærdóms drjúgyrðum, sem kunna að hafa blekkt suma, svo þeim hefur fundizt hann tala bæði snjallt og greinilega. Jeg hefði nú leitt hjá mjer að gegna þessu, þar það rótar alls ekkert við sannfæringu þeirri sem 8 ára næstum dagleg reynsla hefur rótfest hjá mjer um nytsemi

homöopathíunnar, það mun ekki heldur róta við þessari sannfæringu hjá öðrum sem geta borið fyrir sig sömu reynslu og jeg, en þeir eru orðnir æði margir bæði hjer norðan- og austanlands, — víst miklu fleiri en dr. H. ætlar —; jeg mundi, segi jeg, hafa leitt þessa áreitni hans hjá mjer, ef hann hefði ekki skorað á mig að svara.

Fyrst þegar jeg sá síðast nefnda ritgjörð hans með þessari álitlegu yfirskript: „Vísindin, reynslan og homöopatharnir", bjóst jeg við miklu, en vonin brást mjer í því hún átti að rætast, því naumast var jeg búinn að yfirfara þetta rit hans, þegar jeg sá, að það hefði átt að rjettu lagi að heita: fáfræðis-ósanninda-haturs- og sleggjudóma þvættingur um homöopathana, því það er auðsjeð, að höfundurinn þekkir ekki fræði þeirra nema af annara sögusögn, en ekki af eigin reynslu, sem hann er þó að gorta af í áðurnefndu blaði Þjóðólfs, því allt læst maðurinn hafa reynt og allt vita. Hann kallar þenna graut úr sjálfum sjer „vísindin og reynsluna", en gætir ekki að því, að hann í raun og veru gjörir gis að hvorutveggju, því annaðhvort er: að hann er fáfróður í homöopathíu og ekki heldur sjerlega vel að sjer í náttúru- og sagnafræði, ellegar þá hitt, að hann ritar móti betri vitund, og er það þá ekki betra. Þetta mun nú þykja freklega að orði kveðið, en jeg vona að geta sannað það, og sýnt ofan á, að

hann þurfi ekki að hreykja sjer eins hátt yfir homöopathana eða fordæma þá eins og hann gjörir.

Á 1. blaðsíðunni í „vísindaritinu“, þar sem hann nefnir fyrst smáskamta homöopathanna, bryddir þegar á ósannindum, en á þeim byggir hann nú fyrstu sannanirnar. Áður enn jeg svara þeim verð jeg að taka fram:

## I. grein.

**Grundvallarreglu homöopathanna: líkir sjúkdómar batna af líktverkandi meðölum (similia similibus curantur); styðst hun bæði við vitnisburði margra merkra allopatha, og er byggð á náttúru lögmáli.**

Orðið „homöopathía“ er af höfundi þessarar læknisaðferðar, dr. Samuel Hahnemann, samsett af tveimur grískum orðum: „homoios“ líkur, og „pathos“ sjúkdómur, og á það vel við vegna þess hún er byggð á náttúrulögmáli, eins og síðar skal sýnt verða, en aðferð stórskamtalækna nefnir Hahnemann „allopathíu“, af því hún er gagnstæð hans aðferð, og líka af því, að allopathar brúka til lækninga þau meðöl, sem gagnstæð eru sjúkdóminum, t. a. m. blóðæsandi meðöl við köldu, en kælandi við sótthita, ellegar þá þess konar meðöl, sem ekki standa í neinu sambandi við sjúkdóminn. Homöpathar þar á móti brúka til lækninga þau meðöl, sem inntekin af heilbrigð-

um í stórum skömtum[1] orsaka sjúkdóm, sem er sem líkastur sjúkdómi þeim, er þeir vilja lækna á veikum, það er með öðrum orðum, aðalgrundvallarregla þeirra er sú: í hverjum sjúkdómi að gefa inn mjög lítinn skamt af því meðali, sem þeir vita um, að orsakar í stórskömtum líkan sjúkdóm á heilbrigðum. Hvað nú fyrst og fremst áhrærir þessa grundvallarreglu, þá er það alkunnugt, að menn í sumu hafa, þegar fyrir löngu fylgt henni og fylgja enn, án þess að gjöra sjer grein fyrir hvernig á því standi. Þannig lækna menn hita með hita, t. a. m. hitastingi og bólgur með heitum bökstrum, þorsta með heitum drykkjum, innri hita með áfengum drykk. Á líkan hátt lækna menn kulda með kulda, t. a. m. freðna limi með snjó eða ísköldu vatni. Eins og nú ofmikill hiti eða kuldi getur gjört heilbrigða limi eða líkamsparta veika, þannig getur bæði hiti og kuldi læknað þá, er þeir eru veikir. Sjálfir allopatharnir eiga að þakka

[1]) „Taki menn heilbrigðir „china“ í smáskömtum, þá ollir þetta meðal kölduveiki“ o. s. frv. (sjá „Vísindin“ 1. bls.), eru orð. dr. Hjaltalíns en ekki Hahnemanns. Það er alkunnugt erlendis (sjá Hahnem. kl. med. Schrifte, von dr. Stapf, pag. 79.), að Hahnemann tók ekki inn smáa heldur feikilega stóra skamta af „china“ seyði, þegar hann fjekk kölduveikina af því, og sama gjöra homöopathar enn í dag, er þeir reyna meðölin á sjer heilbrigðum. Sannanir þær, sem dr. Hjaltalín byggir á áminnstri lýgi sinni, falla því með henni.

beztu lækningar sínar meðölum þeim, sem orsaka áþekka sjúkdóma á heilbrigðum. Setja þeir ekki kýibólu sem varnarmeðal við hinni náttúrlegu bólu, af því setta bólan orsakar henni áþekkan sjúkdóm? Brúka þeir ekki brennistein við kláða, china við vissum köldusóttum, kvikasilfur við franzós-veiki. Næstum óteljandi vitnisburði þessu til sönnunar má lesa í ritum allopathanna allt í frá fornöld til vorra tíma.

Hippokrates (á 5. öld fyrir Krists burð) segir: „þegar tveir sjúkdómar eru undir eins í líkamanum, hlýtur hinn sterkari að bera hinn veikari ofurliða“ (Aphorism. XXXVI. p. 1246); „kalt vatn orsakar stjarfa, köldu og stirðnun, en þegar því er steypt yfir þá, sem veikir eru af þessum sjúkdómum, læknar það þá“ (Aphorism. XVII, p. 1253). Ábangendur Hippokrates: Thesallos, Polybos, Philistion og fl. segja, að hvítlaukur orsaki höfuðþyngsli á heilbrigðum, og þó er hann brúkaður við ölvímu drykkjumanna. (De victus ratione in morbis acutis S. IV. p. 404). Vín ver hita þeim, sem kemur eptir að maður hefir borðað, því það heitir og eflir meltinguna. (De affectionibus liber p. 530). Í ritinu um niðurfallssóttina (de morbo sacro p 310) er sagt: „sjúkdómarnir batna bezt af því sem orsakar þá“; þó er þetta enn betur útlistað í bókinni „perí topón“: „af líku orsakast og batna sjúkdóm-

arnir". „það sem orsakar þvagtregðu, hósta, lífsýki og uppsölu, megnar einnig að lækna þessa kvilla" (De locis in homine S. IV. p. 421). Asklepiades frá Bythiníu brúkar vín við ofmiklum svita, og kennir þó, að víndrykkir um of orsaki löðursvita. Hann ræður og til að gefa vín við heilabólgu í smáum skömtum, þar það geti gjört heilabólguveika menn óða. Störck segir: „ef eiturjurtin „stramonium" gjörir heilbrigða menn ringlaða, væri þá ekki reynandi að brúka hana við vitleysu á veikum"? (Lib. de stramonio p. 8). Paracelsusar orð eru þessi: „Regla Galenusar, sem ráðleggur að gefa þau meðöl inn, sem gagnstæða verkun hafi, er röng, menn ættu að brúka þau meðöl sem verka áþekkt sjúkdóminum. Basilus Valentinus í riti sínu „um manninn" (de microcosmo) kemst svo að orði: „það á að lækna líkt með líku, en ekki með því gagnstæða; hita með hita, kulda með kulda".

De Haen þekkti líka þessa grundvallarreglu, og getur þess að meðalið „dulcamara" orsaki taugateygjur og óráð, sje það tekið inn í stórskömtum, en að það lækni þessa kvilla í smáskömtum. Hinn danski læknir Stahl segir skýlaust, að sú af allopöthunum viðtekna regla að lækna sjúkdóma með gagnstæðum meðölum sje með öllu galin, heldur eigi að lækna þá með líktverkandi

meðölum. Bouldue játar, að niðurhreinsandi verkun „rhabarbara" rótarinnar gjöri hana að læknismeðali í lífsýki (Mem. de l' Acad. Royale 1716). Barthalon segir, að rafurmagnið lækni þá verki á veikum, sem það orsaki á heilbrigðum, (Medic. Electric. II. p. 15, 282) og Thoury fullyrðir, að það herði á lífæðarslættinum á heilbrigðum, en seinki honum á veikum.

Hjer kemur þá meira eða minna í ljós grundvallarreglan: líkt læknar líkt (similia similibus curantur), samt voru læknar ekki enn komnir fullkomlega í skilning um hana, þá vantaði reynsluna til að geta farið eptir henni nema í einstaku sjúkdómum. Skal nú geta enn fleiri vitnisburða allopathanna meðal hverra flestir rituðu áður en farið var að hugsa um homöopathíu, munu menn þá sjá: að meðan sumir þeirra fullyrða, að viss meðöl lækna vissa sjúkdóma, þá vitna aptur sumir, að sömu meðölin orsaki líka sjúkdóma á heilbrigðum.

Hin svo nefnda enska svitasótt, sem að vitni Williss drap 99 manns af 100, varð fyrst læknuð er farið var að brúka svitameðöl við henni. (Sennert). Hippokrates læknaði „cholera"-sótt, sem ekki vildi láta undan neinum öðrum meðölum, með „hvítu hnerrarótinni" (veratrum alb.), sama meðalinu sem þeir Forest og Raimann segja um, að orsaki inntekið í stórskömtum öll

„choleru"-einkenni á heilbrigðum. Wicthering gaf „hyosciamus" með heppni við meltingarveiklun, líka við eins konar vitleysutegundum, og sama reyndu þeir Mayerne, Störck, Collin, Hünerwolf, Hamilton, Planchon og Acosta. Schenkbecher læknaði margra ára svima með þessu sama meðali, sem Hünerwolf, Blum, Navier, Planchon, Stedmann, Greding, Bernigau og fl. fullyrða að orsaki í stórskömtum svima á heilbrigðum. Huxham vitnar, að „camphóra" sje læknismeðal í hinni svo nefndu hægfara taugasótt (febris nervosa lenta), þegar kuldi og magnleysi er í líkamanum; en G. Alexander, Cullen og Fr. Hoffmann ber saman um, að hún orsaki í stórskömtum samkynja sjúkdóm á heilbrigðum. Evers, Schmucker, Schmalz, Münch og fl. komust að raun um lækningakrapt „belladonnu" í ýmsum geðveikis- og vitleysutegundum, en Grimm, Rau, Hasenest, Mardorf, Hoyer og Dillenius fullyrða, að þessi jurt orsaki í stórskömtum líka sjúkdóma á heilbrigðum. Jurtin „arnika montana" hefur frá ómuna tíð verið brúkuð við mari og meiðslum, en Meyer, Vicat, Crichton, Collins, Stoll og Lange segja allir, að hún í stórskömtum orsaki lík sjúkdómseinkenni á heilbrigðum. Að vitni Hermanns, Valentins og fl. lækna hefir „ignatius baunin" opt læknað tauga-

teygjur, en Bergius, Camelli og Darius tóku eptir svipuðum sjúkdómum af henni á heilbrigðum. Dr. Krüger, Ray, Kellner, Boerhave og margir fleiri læknar tóku eptir, að eiturjurtin „stramonium“ orsakar undarlegar ímyndanir og taugadrætti, en Sidnen, Wedenberg og fl. hafa með þessu meðali læknað svipaða geðveikis- og taugadrátta-sjúkdóma. Baglio, Barbeirad, Gianella, Dalberg, Bergius og fl. læknuðu með uppsölurótinni (ipecacuanha) blóðlát samkynja þeim, sem hún í stórskömtum orsakar á heilbrigðum, eins og þeir Murray, Geoffry og Scott fullyrða. T. C. Wagner tók eptir því, að „sjó-laukurinn“ (sqvilla maritima) orsakaði eins konar síðusting og lungnabólgu, og de Haen, Sarcone og Pringle læknuðu með honum þess konar sjúkdóma. Murray segir, að „augnafró“ (euphrasia officinalis) lækni vot augu og eins konar augnabólgu, en Lobelius getur um, að hún orsaki augnabólgu. Lange segir, að „múskatnyt“ sje góð við öngvitum á móðursjúku kvennfólki, en Schmidt og Cullen geta þess, að hún inntekin í stórskömtum orsaki á heilbrigðum ómegin og öngvit. Murray, Hillary, Spielmann, Hoffmann og fl. segja, að „sennublöð“ (folia sennæ) gjöri mönnum kveisu, en Detharding læknaði með þeim svipaðar innantökur. Murray og fl. segja, að víma, ógleði,

svimi og uppsala sjeu helztu verkanir „tóbaksins", en Diemenbröck læknaði á sjálfum sjer þessi einkenni með tóbaks reykingu, Hinn nafnfrægi Hufeland læknaði svefnsýki (Lethargia) með svefnjurtinni „opium", sem, eins og alkunnugt er, orsakar í stórskömtum fastasvefn. Eins vita og fjölda margir, að þetta sama meðal orsakar harðlífi, en Lentilius, Tralles, Wedel, Bell, Heister, Fr. Hoffmann og fl. hafa læknað með því hættulegt hægðaleysi. Camerarius, Baccius, D. Hilden, Forest, J. Lanzoni, Van der, Wiel og Werlhoff ber öllum saman um, að „spanskflugur" orsaki þvagtregðu; en Fabricius, Capo di Vacca, Reidlin, Young, Schmidt, Raymond, Brisbone og fl. læknuðu með þeim kvalafulla þvagteppu. A. F. Marcus læknaði tungu- og kverkabólgu með kvikasilfri, sem fjölda lækna ber saman um, að orsaki þessar bólgur, ef það er inntekið optar og í stórskömtum, eða borið á útvortis í mökstrum. Dr. Copeland segir: „menn sem lengi eru yfir kvikasilfurs gufu fá af henni kýli í munninn og hálsinn, bólgu í beinhimnuna, liðamót, limi og sinar, líka útbrot um kroppinn, einkum ef þeir eru í kulda". Verður þá kvikasilfursveiki þessi mjög svipuð franzóskvillanum, sem allir læknar játa, að kvikasilfrið sje einkameðal við. Einu sinni var og þetta meðal í miklu gengi hjá allopöthunum við

lifrarbólgu, og prófessor Graves fer um það þessum orðum: „því verður ekki mótmælt, að ofmikil brúkun kvikasilfurs (í sjúkdómum) hefur orsakað lifrarveiki“. Sama játar dr. Hewson. „Jod“ er hrósað eins og ágætu meðali við vatnsspýtingi, og Orfila segir, að menn fái af því óbragð í munninn, hita í hálsinn, ógleði og vatnsspýting. Enn þann dag í dag er „china“ meðalið almennt af læknum álitið gott við köldusóttum. Josias Wittmann segir um það í verðlaunariti sínu, að margar tilraunir hafi sannfært sig um, að þetta meðal gjöri heilbrigða menn köldusjúka. Osann samsinnir því líka (Hufelands Journ. Band. 61. Supplem. p. 97.), og hinn nafnfrægi hermanna læknir Hippol. Gaudorg segist hafa margreynt það á sjálfum sjer, að hið „brennisteinssúra“ „chinin“ orsaki eins konar köldusóttarflog.

Hinum merkustu allopöthum á vorum dögum: Jörg prófessor í Leipzig[1], M. Müller og Schönlein ber öllum saman um, að meðöl geti gjört heilbrigða menn veika — hvernig ættu þau annars að geta læknað veika? —, og hinn síðarst

---

[1]) Jörg tók fyrir sig að reyna ýms meðöl á heilbrigðum, með fram í því skyni, að hrekja það, er Hahnemann hafði sagt um verkanir þeirra, en þessar tilraunir hans urðu til þess að staðfesta það, sem Hahnemann hafði uppgötvað, eins og sjá má af riti því, er M. Müller hefir gefið út um nefndar tilraunir.

nefndi talar um ýmsa sjúkdóma orsakaða af ofmikilli meðalabrúkun (Allg. u. spec. Pathol. u. Therap. III. S. 313.).

Þrátt fyrir alla þessa sannleiks vitnisburði helztu lækna á öllum öldum frá því fyrst að læknisfræði er getið, verður þó dr. Hjaltalín lítið fyrir að gjöra alla höfunda þeirra í hóp að lygurum, þar sem hann segir í „vísindaritinu“ (bls. 2.) að hrein uppsölumeðöl geti aldrei bætt uppsölu og svo frv., og að „eingum lækni hafi enn tekizt að hleypa í sig meðalasjúkdómi“, og er þetta hingað til óheyrða axarskapt rjett samboðið öðrum ályktunum hans í nefndu riti, því eptir því verða öll meðöl ónýt og verkunarlaus. Hvernig lýzt yður á landar góðir? Slíka speki kennir nú og útbreiðir á prenti efsti læknirinn á landinu!

Nú er eptir að skoða, hvernig grundvallarreglan: líkir sjúkdómar batna af líktverkandi meðölum, er byggð á lögum náttúrunnar. Þó í fyrsta áliti virðist óskiljanlegt, hvernig meðal, sem orsakar vissan sjúkdóm á heilbrigðum, geti læknað honum áþekkan sjúkdóm á veikum, verður það þó skiljanlegt af þeirri reynslu, að þegar nýr sjúkdómur (meir eða minna) náskyldur hinum náttúrlega sjúkdómi, svipaður að styrkleika eða lítið eitt meiri kemur saman við hann, þá afmáir hinn fyrri hinn síðara, allt að einu og sólarljósið slökkur birtu stjarnanna, svo þeirra gæt-

ir ekki meðan það lýsir, eða þegar tveimur jafnstórum kúlum með jafnmiklu afli er hrundið hverri mót annari, þá setjast báðar að, er þær mætast, og komast hvergi. Eptir þessu óumbreytanlega náttúrulögmáli verður þá læknirinn, er hann vill lækna náttúrlegan sjúkdóm, að velja það meðal, sem í verkunum þess á heilbrigðum er sem líkast honum. En þar nú eptir alþekktu náttúrulögmáli tvö jafnstór öfl kyrsetja hvort annað, er þau mætast, hlýtur læknirinn að haga stærð meðals inngjafarinnar þannig, að sjúkdómur sá, er hún orsakar, sje jafnsterkari en hinn náttúrlegi sjúkdómur, en þó ekki svo stór, að hinn nýji meðalssjúkdómur setjist að þar sem hinn var áður; það er: inngjöfin — eða inngjafirnar ef þær þurfa fleiri —, verður að vera nægileg til að fjarlægja hinn náttúrlega sjúkdóm, svo þegar verkun hennar, sem varir vissan tíma, er hjá liðin, þá sje um leið horfinn sjúkdómurinn.

Eptir hugmyndum hinnar eldri læknafræði, sýnist hjer tvöföld mótsögn eiga sjer stað. Hvað þá? Menn vilja lækna með því að tilbúa nýjan sjúkdóm, og ætla að gjöra þetta með meðölum. Reyni menn til að svara þessari spurningu; „Hvað er læknismeðal, og hvernig verkar það á mannlegan líkama?“ munu þeir brátt komast í skilning um, að lækninga-aðferð homöopathanna er skynseminni samkvæm.

Hugmynd sú, sem til vor er komin úr myrkri hinnar fornu læknisfræði er með öllu röng. Þegar einhver veiktist, var óðara sent eptir lækni. Hann skrifaði strax „recept“ og sjúklingurinn fjekk blöndu, dupt, eða pillur, af 2, 3, 4, eða fleiri efnum, sem hann tók inn og kallaði meðöl, og hjelt eptir gömlu trúnni, „mikið verkar mikið“, að sjer mundi batna því betur, sem hann tæki meira inn. Og svo megn varð hjátrúin á meðölin, að læknar sjálfir borðuðu heilbrigðir meðöl til þess að þeir yrðu enn heilbrigðari. Hve hraparleg villa! Meðal er hvert það efni í náttúrunni, sem í lifandi mannlegum líkama orsakar breytingu á ásigkomulagi hans, frábrugðna hinum venjulegu tilfinningum. Taki heilbrigður maður inn meðal, svo nokkru nemi, hlýtur hann að verða meir eða minna veikur í sama hlutfalli sem meðalið er kraptmeira eða kraptminna, því breyting frá ásigkomulagi hins heilbrigða getur ekki orðið annað en sjúkleiki, eins og breyting frá ásigkomulagi hins veika getur ekki orðið annað en heilbrigði: hið þriðja getur eigi átt sjer stað. Þess vegna lækna meðölin að því leyti sem þau breyta ásigkomulagi hins veika.

Reyni menn nú að grennslast eptir, hvernig meðalið verkar á mannlegan líkama, verða þeir að setja á sig eptirfylgjanda atriði, er sýna gyldi lækninga-aðferðar homöopatha.

Hinn lifanda líkama, það er: alla parta hans, bæði hina föstu og rennandi, sem allir til samans mynda hann, uppfyllir á oss óskiljanlegan hátt kraptur sá, er vjer köllum lífskrapt (vis vitalis), sem kemur því til leiðar, að öll verkfæri (partar eða limir) gegna ætlunarverki sínu. Meðan því fer fram tálmunarlaust, og ekkert ber út af, þá er líkaminn með reglulegu eðli sínu og köllum vjer það heilbrigði. En breytist þetta ástand við einhver ytri áhrif eða önnur tilefni, sem verka á lífskrapt þessa eða hins verkfæris, svo að af því rísi einhver teppa eða ósamhljóðun í líkamanum, er kemur í ljós í óreglulegum einkennum og tilfinningum, sem heilbrigðir menn eiga ekki vanda fyrir, þá köllum vjer það sjúkleika (veikindi). Sjerhvað sem veikir lífskraptinn hlýtur því einnig að veikja líkamann. Sjeu að eins lítil brögð að veiklun lífskraptarins, þá getur hann af sjálfs síns rammleik losað sig við sjúkdómsefnið og náð sjer aptur. Takist þetta, eru menn í daglegu tali vanir að segja: „náttúran hefir hjálpað sjer sjálf“ og meina menn þá með orðinu „náttúra“ lífskraptinn. Sje sjúkdómurinn þar á móti áhrifamikill og lífskrapturinn of magnlítill til að hjálpa sjer sjálfur, þá verður að hjálpa honum, ef hann á ekki að verða ofurliði borinn. Þessa hjálp veita nu meðölin, ef

þau eru rjett valin, mátulega og í tækan tíma inn gefin, svo framarlega að bati sje mögulegur.

Undir eins og eitthvert meðalsefni hefir samlagazt mannlegum líkama, kemur það til leiðar meiri eða minni breytingu á ásigkomulagi hans — í sama hlutfalli sem það er sterkara eða linara —, og varir hún skemmri eða lengri tíma. Breyting sú, er vart verður við, heitir meðalsins frumverkun (vis positiva, positiv Virkning, Förstvirkning). En jafnskjótt og frumverkunin er komin reynir lífskrapturinn til að spyrna mót henni (þ. e. áhrifum meðalsins), og heitir sú viðleitni mótverkun, eða eptirverkun (reactio), og er hún ætíð gagnstæð frumverkun meðalsins. Einmitt þessi setning, sem byggð er á reynslu, er aðalundirstaða lækninga-aðferðar homöopatha, enda sanna óteljandi dæmi í daglegu lífi að hún er á góðum rökum byggð. Dýfi maður t. a. m. handleggnum ofan í ískalt vatn, verður hann fyrst í stað miklu kaldari og blárri en hinn, en tekinn upp úr vatninu og þurrkaður verður hann ekki að eins varmari og rauðari en hinn, heldur jafnvel heitur og stundum bólginn. Hið fyrra er frumverkun kalda vatnsins, en hið síðara eptirverkun af lífskrapti líkamans, og er hún jafnan gagnstæð frumverkuninni. Á sama hátt orsakar, eins og hverr maður veit, kaldur drykkur í kulda eptir á hita, og áfengur drykk-

ur í hiti kælingu. Hitinn af kalda drykknum og kælingin af þeim áfenga eru eptirverkanir, sem eru öldungis gagnstæðar frumverkuninni af hvorutveggja. Eptir mikla áreynslu kemur hiti, en eptirverkunin verður kalda. Frumverkunin af sterku kaffi er mikil glaðværð, en eptirverkunin er deyfð og slen. Frumverkunin af „svefnjurtinni“ (opium) er þungur svefn, en eptirverkunin svefnleysi. Ein af frumverkunum þessa meðals er og harðlífi, en eptirverkunin lífsýki. Homöopathinn breytir því öldungis samkvæmt náttúrunni, þegar hann velur það meðal sem í frumverkun þess á heilbrigðum er sem líkast sjúkdómi þeim, er hann vill lækna, því hann veit að eptirverkunin verður gagnstæð frumverkun meðalsins, það er: eptirverkunin verður lækning sjúkdómsins.

Nákvæm og — að svo miklu leyti unnt er — greinileg þekking á frumverkun meðalanna er því ómissandi homöopöthunum, en hún getur því að eins fengizt, að menn að spyrji sjálfa náttúruna, með því að reyna hvert meðal sjer í lagi eða einfalt[1]

---

[1]) Þetta hafa fleiri dugandi allopathar játað, og þar á meðal Pereira. „Homöopatharnir“ — segir hann — „hafa rjett fyrir sjer í því, að reynsla meðalanna á heilbrigðum er eini vegurinn til að komast eptir verkunum þeirra, því þegar vjer gefum þau inn veikum, getum vjer ekki að greint verkanirnar frá einkennum sjúkdómsins“.

inn gefið, heilbrigðum á ýmsum aldri optar og í stórum skömtum. Á þenna hátt hafa homöopatharnir aflað sjer þekkingar á frumverkunum meir en 300 meðala, sem byggð er á lífsfræðinni (Physiologie) en ekki á lærðu rausi, getgátum og grufli eins- og meiri hluti meðalafræði allopathanna. Þess vegna brúka homöopathar aldrei þau meðöl til lækninga, sem þeir ekki vita um, að áður hafi til hlítar verið reynd á heilbrigðum, og því eru lækningar þeirra, ef þær á annað borð heppnast, eins og sjálfsögð afleiðing meðalanna eptir hinni áður áminnstu grundvallarreglu.

Öðru vísi er háttað lækingum allopathanna. Þær eru ætíð byggðar á óáreiðanlegri reynslu og tilviljun. „Einn liggur“ — segir dr. Hering[1] t. a. m. í sótt, köldusótt. Honum er gefin „china“ eða „chinin“ og honum batnar. Nú má spyrja: 1) sótt — hvað er það? Enginn veit það. — Það er köldusótt. Hverrar veru og eðlis er hún?[2] Það vitum vjer ekki. Vjer erum nú að búa til alls konar getgátur um það. — 2) Sjúklingi er gefin „china“ o. s. frv. Hvers

---

[1]) Dr. Hering er nafnfrægur læknir í Philadelphia í Vesturheimi, og eru orð hans í þessu tilliti því merkari, sem hann var framan af allopath í mörg ár, en varð seinna homöopath af sannfæringu og eigin reynslu.

[2]) Má af þessu ráða, hvað allopatharnir þurfi að stæra sig af þekkingu þeirra á „eðli“ sjúkdómanna. Meira um það síðar.

vegna? það vitum vjer ekki. það er margreynt, að „china“ læknar margar sóttir, en hverjar þá? Um það höfum vjer margs konar getgátur. — 3) Sjúklingi batnar. Hvers vegna? það vitum vjer ekki. En ef honum hefði nú ekki batnað, hvað hefði þá komið til þess? það vitum vjer ekki. Sýnist þá ekki batinn hafa verið eintóm tilviljun“?

þess er þegar getið, að homöopatharnir eptir áminnstu náttúru lögmáli brúka það meðal í mjög litlum skamti við veika, sem í verkun þess á heilbrigðum er sem líkast sjúkdóminum, en aldrei nema eitt í senn — ef þau þurfa fleiri, þá til skiptis — af þeirri skynsamlegu ástæðu, að hvert meðal hefir áður verið reynt einfalt á heilbrigðum. Skal hjer nú stuttlega víkja á.

## 2. grein.

## Meðalaskamta-fræði homöopathanna,

Sje meðalið fundið — sem mestu varðar — þá er eptir að ákveða, hvað stór skamturinn skuli vera. þetta verður ekki fundið nema með reynslunni. Hahnemann gaf í fyrstunni mikið inn, viðlíka stóra skamta og allopatharnir, en þegar hann varð var við versnanir af þeim, smáminnkaði hann þá, og hafði þá ekki stærri en þurfti til lækningar sjúkdóminum. Svona kenndi reynslan honum að smáminnka skamtana. Aðferðin í þessu

tilliti er mjög einföld, þó dr. Hjaltalín og margir ofvitrir allopathar komi því ekki í höfuð sitt.

Af þurrum meðala-efnnm, t. a. m. málmum, jarðartegundum, söltum, er tekið 1 gran í dupti og vandlega núið saman við 99 grön af mjólkursikurs dupti. Heitir þetta fyrsta þynning. Af þessari 1. þynningu er aptur tekið 1 gran og núið saman við önnur 99 grön af hreinu mjólkursikursdupti, og er þá komin önnur þynning. Af þessari 2. þynningu er til búin hin þriðja á sama hátt og hinar, þannig að 1 gran af hinni 2. er núið saman við 99 grön af mjólursikursdupti, og er þá komin þriðja þynning. Af henni er 1 gran látið renna í 50 dropum af hreinsuðu (destilleret) vatni, og síðan við bætt öðrum 50 af vínanda, og myndast þannig hin fjórða þynning. Af henni aptur 1 dropi saman við 99 dropa af sterkum vínanda myndar fimmtu þynningu. Þannig er til búin 6. 7. 8. 9. og 10. þynning, allt að hinni 30. eptir því sem menn þurfa þeirra með, en hvert glas að eins hrist[1] tvisvar sinnum, þá búið er að láta í það þann 1 dropa saman við vínand-

[1]) Það eru ekki homöopatharnir heldur einmitt allopatharnir, sem þurfa að „hrista og skaka" meðölin, vegna þess, að þau mörgu efni, sem þeir opt — þvert á móti reglum efnafræðinnar — sulla saman í blöndur sínar, vilja með engu móti samþýðast, svo þeir hafa ekki önnur ráð, en skipa að hrista flátið á undan hverri inntöku.

ann. — Meðöl af flestum jurtum eru svo til búin, að vökvi þeirra er nýr blandaður til helminga með sterkum vínanda, og eru þá til 1. þynningar teknir 2 dropar til að blandast saman við 98 dropa af vínanda, en úr því er þynningaraðferðin öll hin sama og höfð er við málmana, þá búið er að þynna þá með mjólkursikrinu, en farið að þynna með vínanda.

Til að skipta einu meðalsefni í „decillion" parta, þarf því að eins 30 glös, af hverjum hvert fyrir sig tekur 100 dropa af vínanda, en öll samtals 3000 dropa. Allir geta nú sjeð, að eptir þessum tilbúningi er í hverju grani eða dropa af 1. þynningu $\frac{1}{100}$, í 2. $\frac{1}{10000}$, í 3. $\frac{1}{1000000}$, í 6. „billion", í 9. „trillion", í 12, „qvadrillion", og í 30. „decillion" partur af því upprunalega meðals efni, því við hverja nýja þynningu bætast tvær sifrur við nefnara brotsins. — Sumir homöopathar þynna meðölin þannig, að $\frac{1}{10}$ partur er í 1. þynningu, $\frac{1}{100}$ í 2., $\frac{1}{1000}$ í 3., o. s. frv. Eptir þessari þynningaraðferð samsvarar hver 2. þynning hinni 1., hver 4. hinni 2., hver 6. hinni 3., o. s. frv. eptir hinni aðferðinni[1].

[1]) Ef dr. Hjaltalín trúir ekki því, sem hjer er sagt, um meðalatilbúninginn, þá getur hann lesið meira um það í Carl Ernst Gruners homöopath. Pharmakopöe. 2. Aufl. Leipzig 1854. og getur hann þá sjeð um leið, hvað satt hann hefur sjálfur talað, þar sem hann segir: „að homöopatharnir láti ófróða menn í efnafræðinni búa upp í hendurnar á sjer".

Reynslan sýnir að mörg meðala-efni, t. a. m. kol, tinnusteinsjörð, gull, silfur, eir o. s. frv. sem í þeirra upprunalegu mynd gjöra annaðhvort litla eða enga verkun, verða við tilbúninginn að hinum kröptugustu meðölum; sömuleiðis verða við hana hin sterkustu eitur, t. a. m. arsenik, blásýra, jod, kvikasilfur, að hinum mildustu meðölum.

Hvað stóran skamt (þ. e.: hverja þynningu), skuli gefa inn í hvert skipti, er komið undir þessu þrennu: krapti meðalsins, lífskrapti sjúklingsins og ásigkomulagi sjúkleikans. Hvað hið fyrsta áhrærir, þá eru hin kraptminni meðöl gefin inn í hinum lægri, en hin kraptmeiri í hinum hærri eða hæstu þynningum. Hvað hið annað eða lífskraptinn snertir, þá hefir reynslan fullkomlega sannað, að börn, viðkvæmir og fljótlyndir þurfa minni skamta en gamlir og ótilfinninganæmir. Þó framkoma margar undantekningar frá þessu, eptir ýmislegum kringumstæðum. Í nánu sambandi við þetta er hið þriðja, eða ásigkomulag sjúkdómsins, sem meira eða minna verkar á lífskraptinn. Það er gömul regla meðal homöopathanna að brúka í bráðum sóttum (morbis acutis) hinar lægri þynningar af því viðeigandi meðali, en í langvarandi sjúkdómum (morbis chronicis) hinar hærri. En hverr sem daglega athugar sjúkdóma, kemst fljótt að

raun um, að hvorug reglan er undantekningarlaus, því í hvert skipti hlýtur læknirinn nákvæmlega að haga sjer eptir hinni sjerstaklegu mynd sjúkdómsins og lífskrapti sjúklingsins, og verður yfirvegun þessa hvorstveggja að benda honum á hverja þynningu hann helzt skuli velja, hvort heldur hina hæstu, miðlungs, lægstu, eða ef til vill skamt af óþynntu meðalinu, sem optar getur fyrir komið. Í þessum skilningi verður ekki talað um sterka eða lina, heldur viðeigandi skamta. Hinn viðeigandi skamtur, hvort sem meira eða minna er í honum af efni meðalsins, læknar ætíð bezt. Hver sem nú veit, að homöopatharnir, þegar kringumstæður heimta, brúka ekki síður hinar lægri eða lægstu en hinar hærri eða hæstu þynningar, og jafnvel stundum meðalið óþynnt[1].

---

[1]) Þó gefa homöopatharnir aldrei eins stóra skamta og allopatharnir, og verða því ekki, eins og þeir, varir við skaðvænlegar versnanir. Stórskamtar allopathanna orsaka þrávallt meðalasjúkdóm, sem er hálfu verri og hættulegri en hinn náttúrlegi sjúkdómur, og einkum eru alþekktir erlendis „kvikasilfurs - og china - sjúkdómarnir“, enda viðurkenna allopatharnir það sjálfir. Rusch segir (í Sammlung auserlesener Abhandl. 4. b. 2. st., 297 bls.): „Vjer höfum ekki einungis fjölgað sjúkdómunum: heldur gjört þá enn banvænni“. Schulz (Heidelb. klin. Annalen 5. b. 3. hepti): „Aðgjörðir læknanna gjöra út af við fleiri sjúklinga en þær lækna“. Kieser (Syst. der Medic.): „Marg opt sannast gamla máltækið, að meðalið er skaðvænna en

hann getur bezt dæmt um, hvað satt þeir muni tala, sem eins og dr. Hjaltalín af tómri heimsku kalla skamta homöopathanna „verkunarlausa“. En að jafnvel hinir smærstu skamtar geti verkað, skal nú sýnt og sannað með því sem eptir kemur.

## 3. grein.

## Sannanir fyrir verkun smáskamtanna, teknar úr lífs- og sjúkdómafræðinni, náttúru- og efnafræðinni.

Dr. Hjaltalín heldur, að hann hafi hreint gjört út af við homöopathíuna með ástæðum þeim sem hann tekur úr náttúru- og efnafræðinni, en hvergi fer nú ver fyrir honum.

Homöopatharnir hafa aldrei sagt það, sem hann er að ljúga í menn, að „kraptar meðalanna aukist eptir því sem efni þeirra minnkar, heldur hitt, að meðölin verði við það smágjörfari

kvillinn og læknirinn verri en sjúkdómurinn“. Wedekind (Hufel. Jour. 1826, 6. part 3. bls.): „Komi homöopatharnir oss til að brúka minni meðöl og skipta sjaldnar um þau, að blanda ekki að óþörfu mörgum efnum saman, þá munum vjer einhvern tíma komast svo langt, að vjer getum raupiaust hrósað oss af reynslu vorri, en á það vantar mikið enn sem komið er“. „Jeg veit gjörla“ — segir gamall og gráhærður allopath — „að sjö tíundu partar mannkynsins deyja — ef til vill — ekki úr sjúkdómum, heldur af ótímabærri og ofmikilli meðalabrúkun“. (Allgem. Anzeiger der Deutschen. 1833, 235. bls.).

og undir eins hæfilegri til að komast um minnstu vegu í mannlegum líkama. Hvernig eiga hin hörðu og óþjálu meðala-efni, t. a. m. málmarnir, að geta samlagazt líkamanum í þeirra upprunalegu mynd, allir heilvita menn sjá, að þetta getur ekki skeð, nema með því að skipta þeim í sem smærsta parta. Homöopöthunum hefir því síður dottið í hug að „skilja verkanirnar frá efnunum“, sem hin nýjasta náttúrufræði hefir ljóslega sýnt, að frumagnirnar hljóta að vera langt um smærri en nú er verið að prjedika mönnum af dr. Hjaltalín, sem á sínum stóru (!!!) frumögnum byggir þá heimskulegu ályktun; „að ómögulegt sje að skipta efnunum eins smátt og homöopatharnir segi“. En hversu smátt sem einu efni er skipt, hlýtur þó eins hinn minnsti partur þess að hafa líka verkunareiginlegleika og efnið sjálft, og þess vegna nokkuð af þeim krapti, sem efnið hefur í sjer óskipt. Enginn neitar þessu, nema heimskingi. það tjáir og með engu móti, sem dr. H. þó gjörir, að álykta frá mat og vatni til meðala, því þau verka, eins og áður er sagt, á annan hátt en fæðan og svaladrykkurinn. En hverr veit, kann ske honum takist á endanum að koma mönnum til að brúka meðöl í matarstað, og eptir spádómi hans sjá (Vísind. bls. 8), eru nú ekki nema 10 ár þangað til að Rade-

machers stóru skamtar eiga að verða búnir að sigra homöopathíuna hjer á landi!!!

Þá reiðir nú röksemdinni, sem hann tekur af „vatninu" móti homöopöthunum ekki betur af en hinum næst áminnstu. Homöopatharnir hafa aldrei sagt að menn sýktust af efnunum eins samsettum og þau finnast í vatninu. Hann nefnir að eins verkanir „kalksins" en ekki hinna efnanna. Kann ske hann haldi að þau sje verkunarlaus? Máske hann viti ekki sjálfur[1] betur en vel, að efni þessi samblönduð afmá (neutralisere) þannig hvert annars verkun, að eitt þeirra öðru fremur getur ekki ollað sjúkdómum. Þessi vatnsglósa hans verður því að einberri markleysu.

En hvað nú viðvíkur verkun smáskamtanna, sem hjer ræðir um, þá má það undarlegt þykja, hvernig allopatharnir hafa mótmælt henni, þar sem þeir þó í eðlis- og náttúrufræðinni og öðrum greinum náttúruvísindanna verða varir við mjög svipaðar verkanir og eru sjálfir sannfærðir um, að ofsalegustu sjúkdómar, eins og landfarsóttirnar eru, kvikna upp af einhverju lopteitri (Miasma), sem er svo lítið fyrirferðar, að engin mannleg skilningarvit geta orðið þess vör. Þegar nú svo

[1] Það er ekki ómögulegt að jeg — ef jeg lifi svo lengi — geti seinna sagt mönnum sögu og hana sanna til merkis um, hvað dr. Hjaltalín er vel að sjer í efnafræðinni, en jeg ætla að sleppa því í þetta sinn.

lítið efni getur orsakað sjúkdóma, skyldu þá smáskamtar homöopathanna hverra efni má finna í hinum hærri þynningum, eins og þeir Segin og Mayerhofer hafa sýnt, ekki geta neitt verkað? Að játa því fyrra en neita hinu síðara stríðir á móti rjettum hugsunarreglum. Árið 1838 prófaði Segin 6 fyrstu þynningarnar af „koparnum“ með sjónauka, sem stækkaði 75 falt, og fann þa í hverju duptkorni í hverri þynningu hinar mórauðu koparagnir jafnt dreifðar innan um mjólkursikrið, en í 7. þynningu sá hann þær ekki. Til fullkomnunar þessum rannsóknum skoðaði hann sama ár með sólarsjónauka: „viðarkol, kopar og salmiak“, og fann þau öll í hinum hærri þynningum. Þessar uppgötvanir hefir Mayerhofer staðfest. Tilraunir hans lutu að því, að komast eptir, hvað lengi efninu yrði sýnilega skipt, og svo með fram að læra af því áríðandi reglur fyri meðalatilbúningnum. Til að vera því vissari aðgætti hann fyrst með sjónaukanum mjólkursikrið, vínandann og hið hreinsaða vatn, sem hann ætlaði að brúka til að þynna með málmana. Fann hann þá „hvítagullið“ í 10. þynningu, sömuleiðis „kvikasilfur, málmgull, silfur og kopar“, járn í hinni 8. og botnfellt (præcipiteret) tin í 14. þynningu. Af þessu dregur hann þá ályktun, að partar efnanna skiptist við núninginn allt af í fleiri og smærri parta með hverri þynningu og verði á þann

hátt smágjörfari og hæfilegri til að verka í lifandi líkama. Eptir reikningi hans samsvarar þvermál lítils duptkorns af málmi $\frac{1}{1200}$ — $\frac{1}{2000}$ parti úr línu, svo að teningsrúm þess er 64 sinnum minna en einnar kúlu (molecul) af mannsblóðinu og getur því fyrirstöðulaust komizt um hármjóstu rennur. Svona hefir Mayerhofer rakið spor skiptingar málmagnanna, og sýnt, að hún á sjer stað, þar sem hún er þó fyrir löngu horfinn auganu í sjónaukanum, og er þess vegna af heimskingjum álitin ómöguleg. Þar nú blóðið lýkur umferð sinni um líkamann á 20 til 30 sekundum, þá hafa hinar smáskiptu málmagnir á þessu tímabili snert alla tauga-enda, og verður þá auðskilin hin fljóta verkun, sem opt verður vart við af smáskömtum.

Þetta kemur og heim við athuganir þær, sem Panizza hefur við haft um aðdrátt suguæðanna[1]. Hann hefur fyrir satt, að aðdrátturinn er því fljótari, sem efnin eru lausari í sjer, smágjörfari og meltanlegri; að þess vegna ítrekaðir smáir skamtar meðalanna verka betur en stórir, sem fara burt aptur með hægð-

---

[1]) Suguæðar (vasa resorbentia) nefna læknar þær hármjóu pípur eða rennur magans og annara parta líkamans sem sjúga í sig eða draga til sín efnin., og flytja þau síðan inn í blóðið.

unum ásamt öðrum efnum, er ekki geta samlagazt blóðinu. (Bart. Panizza, dello absorbimento venoso, Milano 1834. 4). Hið sama segir og prófessor Albers: „Maginn þolir betur smáskamtinn, sem kemst fyrri inn í suguæðarnar, og verkar fljótar en stóri skamturinn“. Á sama máli eru þeir Schultz og Coindet. „Því fljótar sem meðalið kemst inn í suguæðarnar, þess vissari er verkunin“; og er þetta svo margreynt af smáskömtum vegna þess hinar smáu meðala-agnir komast fyrirhafnarlaust um líkamans smágjörfustu vegu. Hlægilegt er því, að fullyrða, að smáskamtar „geti ekkert verkað“,

Lífsfræðin (Physiologie) kannast við, að lifandi líkami og einkum mannsins sje miklu næmara prófsmeðal (Reagens) en nokkur önnur efni, sem efnafræðingar brúka til rannsókna sinna. Badge segir: „Í veikindum er opt undraverð viðkvæmni í hreifinga- og tilfinningataugunum (motoriske og sensible Nerver), þó þekkja menn ekki nákvæmlega hvernig á henni stendur“. Pfaff, sem þó er ákafur talsmaður hinnar svo nefndu efna-meðalafræði, stendur fast á því, að lifandi líkami sje þar næmasta prófsmeðal sem efnafræðin getur ekkert leitt í ljós. Enda lætur reynslan menn þreifa á þessu. Hefur nokkur vegið sóttarefnið (Miasma) til skarlats-sóttarinnar, mislinganna, taugasóttarinnar, choleru-drep-

sóttarinnar eða annara næmra sótta? Hefur nokkur vegið eða mælt óttann, gleðina, reiðina, sem í einni svipun geta ollað hættulegustu sjúkdómum eða bráðdauða? Hefur nokknr vegið gremjuna eða hryggðina, sem getur eytt afli sálar og líkama? Hefur nokkur vegið gufuna af b l ý i n u, sem orsakar innankvalir og aflleysi, af kvikasilfrinu, sem orsakar hina hræðilegu kvikasilfursveiki, af p h o s p h ó r n u m, sem orsakar beinveiki á þeim sem yfir honum eru? Hvað mikið ætli að verði eptir af eitri höggormstannarinnar í sárinu á þeim, sem bitinn er, og bíður bana af því? Hversu óskaplega lítið þarf ekki af bóluefninu til að orsaka eins konar bólusótt? „þegar menn nú íhuga“ — segir C a r l V o g t (Physiol. Briefe 53—54 bls., 1854) „að svo furðu lítið efni virðist ekki geta orsakað neina merkjanlega breytingu í blóðinu — því hvorki geta prófsmeðöl efnafræðinnar nje sjónaukar neitt uppgötvað í þessu tilliti —, þá mega menn einlæglega játa, að þeim hefur ekki enn tekizt að leiða vísindaleg rök að því, hvernig standi á þeim breytingum sem eiga stað í blóðinu“. Líkt á sjer stað með l y k t a r s t e r k meðöl. M i k i l verkun fram kemur af litlu efni. „Allopatharnir“ — segir dr. G ü n t h e r — „brúka lyktarsterk meðöl til að vekja menn með úr öngvitum án þess fyrir fram að spyrja að, hvað mikið l y k t i n v e g i, en þegar þeir fara að skrifa

„recept“ sín, þykir þeim mestu varða að sjá um, að nóg verði gefið inn“. Dr. Snow núlifandi læknir í London hefur tekið upp á því að gefa flest meðöl inn þannig, að láta sjúklinga annaðhvert lykta af þeim, eða draga að sjer gufuna með andardrættinum.

Hin mikla viðkvæmni mannslíkamans við viss ytri áhrif kemur einkum í ljós í sjerstaklegu eðlisásigkomulagi (Idiosynkrasie), sem menn halda að spretti af einstaklegri samblöndun vessanna og blóðsins; og eru svo mikil brögð að þessari viðkvæmni, að jafnvel lítilfjörlegustu tilefni valda áköfustu eptirverkunum. Eðli hennar er mönnum ókunnugt og hefur efnafræðin ekki enn getað komizt að því. Set jeg hjer fáein dæmi:

Tissot t. a. m. getur þess, að vinur hans einn mátti ekki bragða sikur, því þá fjekk hann ákaflega mikla uppsölu, og allt að einu þó sikurinn færi honum óvitandi ofan í hann. Dejean segir frá manni, sem hunang verkaði á eins og eitur, hvort sem hann renndi því niður eða það snerti einhvers staðar hörundið. Hinn nafnfrægi De Haen mátti ekki borða jarðarber, sem hann fjekk af sinateygjur. Boyle segir frá einum, sem varð fárveikur af kaffilykt. Gaubius þekkti annan, sem fjekk köldu af „citronu“-safa, og eins hvar sem hann kom við hann. Authenriet hefur fyrir satt, að koparplata lögð í lófann,

gjöri mörgum ýms ónot og taugadrætti. Tauga-viðkvæmum verður undarlega ónotalegt af að vera nálægt köttum eða segul.

Eins og nú þessi viðkvæmni við viss áhrif kemur í ljós í sjerstaklegu eðlisásigkomulagi, eins verða menn hennar varir af viðeigandi meðala skömtum. Meðölin verka á vissa parta, verkfæri og kerfi í líkamanum — eins og meðalafræði homöopatha sýnir —, svo að milli meðalanna og parta þeirra er þau verka á er eins konar samband, sem gjörir verkanina mögulega.

Sjúkdómafræðin (Pathologie) kennir, að viðkvæmni líkamans við sjerstaklega verkandi (specifiske) áhrif sje óvenjulega míkil í sjúkdómum, og það svo mjög, að Kieser (Syst. der Medic.) segir, að hlutfallið milli heilbrigði og veikinda sje eins og 1: 3000. Þess vegna verka hinir minnstu rjettvöldu homöopathisku skamtar þannig á veika, að þeir finna af þeim eptirverkanir vegna, þess að skamtarnir verka líkt sjúkdóminum. Heilbrigt eyra t. a. m. þolir hæstu hljóð og hvelli, en sje það bólgið kennir það mestu þjáninga af lægsta hljóði. Heilbrigt auga þolir bjarta sólargeisla, en bólgið auga ekki daufustu birtu. Heilbrigður magi þolir þyngstu fæðu, en veikur ekki þá ljettustu. Hið sama á sjer nú stað meira eða minna með alla lifandi parta líkamans þá er þeir eru veikir, og einmitt þess vegna

þarf svo litla skamta til að koma til leiðar lækn-andi eptirverkunum. Með þessu móti getur hverr maður skilið að viðeigandi skamtur handa veikum gjörir enga verkun á heilbrigðum, og þó sumir allopathar hafi ætlað að sanna verkunarleysi homöopathiskra meðala með því að súpa í einu úr litlu glasi, þá sannar þessi mikilmennska ekki kraptleysi nefndra meðala heldur megna fáfræði þeirra er slíka tilraun gjöra.

Hjer sannast því á mannlegum líkama hið almenna lögmál, að eitt áhrif gjörir því stærri verkun sem hæfilegleikinn fyrir hana er meiri. Þar sem þenna hæfilegleika vantar, verður ekki vart við verkun. Allopatharnir hafa lengi hlaupið í það, „að ef svo litlir skamtar geti verkað, þá geti enginn maður lifað eina stund heilbrigður, af því svo mörg meðala efni sjeu í loptinu og vatninu og svo frv.“, en þeir gæta þess ekki, að þessi smáskiptu efni verka þannig hvert á annað, að eins þeirra gætir ekki fremur en annars; en hafi eitthvert þeirra yfirhönd, þá getur það því að eins verkað á líkamann, að á milli þess og hans sje það samband, sem gjöri verkunina mögulega. Verður þá jafnframt auðskilið, hvað til þess kemur, að þegar næm sótt gengur á einum stað, þá veikjast sumir en sumir alls ekki. Þeir sem veikjast hafa sjerstaklegan hæfilegleika

til að sýkjast, en hina, sem ekki veikjast, vantar hann.

Verkunarhæfilegleika smáskamtanna hefur hinn skarpvitri náttúru- og mælifræðingur Dopler í Prag útlistað í ritgjörð sinni „um stórt og lítið í náttúrunni" (sjá Zeitschrift für Physik etc. von Professor Baumgartner og von Holger). „Hvað hafa þeir fyrir sjer" segir hann, „sem meta verkun meðalanna eptir þyngd, en ekki yfirborðs stærð þeirra? Eða með öðrum orðum: eru það innri efnispartar meðalsins ellegar þeir ytri sem að oss snúa, sem krapturinn felst í? Mun hann ekki líka vera í þeim innri, ef þeir að eins geta notið sín. Og ef það er svo, hvað verður þá úr viðbáru þeirri, „að smáskamtar sjeu verkunarlausir"? Alla efnisparta sem út horfa á einu efni eða líkama köllum vjer úthverfu eða yfirborð. Af því flýtur, að hvert það efni, sem mulið er sundur eða smækkað, verður stærra um sig, vegna þess hinir innri efnispartar koma saman við hina ytri og verða einn hluti hins nýja yfirborðs. Þannig sjá menn að yfirborðið vex í sama hlutfalli, eða jafnvel meira, sem þvermál hvers efnis parts minnkar. Af þessu verður auðskilið, að það meðal, hvers innri fletir eins og ljúkast upp eða margskiptast við núninginn, snertir miklu fleiri staði í líkamanum, en hitt, sem ekki er þannig undir búið, og verður þá hæfara

og fljótara til að verka á parta þá, sem hæfileg- ir eru fyrir verkunina. Af því leiðir aptur, að smáir skamtar þannig tilbúnir verka fljótar en stórir af sama efninu, ef það er ekki þannig undir búið". Gæti menn nú jafnframt að því, sem Authenriet segir, að í lifandi líkama sje verk- anin hvervetna stærri en orsök hennar, þá má það heita furða, að sá, sem þykist vera vísindamaður, skuli kalla það hjátrú, að ímynda sjer að smá- skamtar geti verkað.

Hinn nafnkunni efnafræðingur Liebig seg- ir meðals annars, þar sem hann talar um „stórt og lítið". „Vjer þekkjum dýr með tönnum, hreif- ingar- og meltingarverkfærum, sem ekki eru sýnileg með berum augum. Og þó eru til 1000 sinnum minni smákvikindi, sem hafa öll hin sömu verkfæri; þau æxla kyn sitt í eggjum, sem eru mörg hundr- uð sinnum minni en þeirra litli líkami. Vjer eigum ekki enn svo góð sjónargler, að vjer getum sjeð billion sinnum smærri kvikindi (Chemische Briefe, Heidelberg 1844, 28. bls.). „Ef þessi litlu kvikindi" — segir dr. Arnold — „eru gædd lífi og verkfærum, sem eru enn minni en þau sjálf, ef þau aðhafast nokkuð á sinn hátt, því vilja menn þá neita verkun meðala-efna, sem þó eru sýnileg í hinum hærri þynningum"?

Hverr dirfist þá að fullyrða, að hinar venju-

legu hugmyndir um stórt og lítið sjeu einhlítar til að geta komizt í skilning um verkanir efnanna?

þess meir sem menn læra að þekkja af náttúrunni, því betur sjá þeir, að smiðjur (vinnustaðir) lífsins eru í hinum innstu og smágjörfustu pörtum, og því smágjörfari sem efnin verða, þess hæfilegri verða þau til að verka á lifandi líkama. það er hlægilegt axarskapt að segja það reynslulaust, og rjett út bláinn: „að ómögulegt sje að skipta efnununum eins smátt og homöopatharnir segja“. Partar efnanna hljóta þó ætíð að hafa í sjer efni, fylla rúm, og þess vegna vera skiptanlegir. Og undarlegt er það, að þessir hávitru (!!!) talsmenn stóru frumagnanna, dr. Hjaltalín og hans líkar, skuli þykjast færir að dæma um það, sem þeir þekkja ekki, því þessar svo nefndu frumagnir eru heilaspuni þessara vitringa, og enginn þeirra hefur nokkurn tíma sjeð þær; samt bera þeir fyrir sig vísindin, en tala þó og dæma eins og flón. En þetta ættu þeir því síður að gjöra, sem náttúru- og efnafræðin er allt af að leiða í ljós fleiri og fleiri rök fyrir því, að efnin sjeu skiptanleg.

Að vitni náttúru- og efnafræðinganna má skipta 1 grani af blaðgulli í 4 milliónir smá-agna. Poppe segir, að einn fjórði partur úr grani af „carmin“ (hárauðu litarefni) nægi til að lita með 60 pund af vatni. þegar nú 1

dropa af millíónparti þessara þannig lituðu 60 vatns punda er strokið um hvítan pappír, við hvað dropinn skiptist aptur í millíón parta, þá má þó með sjónauka finna hverja einstaka litarögn á pappírnum. Eitt gran af kopar litar bláa 10,557 teningsþumlunga af vatni og skiptist þannig í 27,738,000 sýnilega parta. Vatn, sem látinn er í 450,000 partur grans af „jodine“ verður auðsjáanlega blátt, ef lítið eitt af línsterkju (amylum, Stivelse), er látið saman við. Dýfi menn fílabeini ofan í saltpjetursúra uppleysing af gulli, og leggi það síðan í ílát með vatnsefnislopti, þá kemur á það gullhúð sem að þykkt nær naumast tíumillíónasta parti úr þumlungi. Úr hvítgulli má draga svo smágjörfan vír, að gildugleikinn samsvarar, 30,000 parti úr þumlungi. Úr teningsþumlungi vatns verða 1728 teningsþumlungar af gufu, og hvílíkt afl hefur hún ekki.

Það er alkunnugt að 1 gran af „moschus“ hefur í 20 ár með lyktinni fyllt stórt herbergi. og þó hefur enginn getað orðið var við stærðar- eða þungamun á því fyrir það. „Hjer hefur því efnið, segja (efnafræðingarnir) hlotið að skiptast að minnsta kosti í 320 qvadrillíónir“ smá-agna. sem á viðkvæmum verka svo á lyktartaugarnar, að þeir fá af því öngvit og taugadrætti. Nægir þetta til að sýna, að litar- og lyktarefnin í áminnstum skömtum koma til leiðar hinum mestu verkunum.

Eptir rannsóknum Walchners og frakkneskra efnafræðinga finnst eitrið „arsenik“ í járnblönduðum málmvötnum, en þar er svo óvenjulega lítið af því, að það finnst að eins í járnkalkinu sem sezt á botninn. Þó eru til margir málmvatna heilsubrunnar (t. a. m. í Wildbað og Gastein), sem efnafræðin getur ekkert fundið í. Hún er hjer álíka ráðalaus og þegar hún á að segja muninn á segulmagnaða og ósegulmagnaða járninu. Og hver getur þó borið á móti hinum furðulegu verkunum segulsins á mannlegan líkama. Það liggur því í augum uppi, að hjer eru einhver önnur öfl verkandi en þau sem efnafræðin getur komizt að.

Af öllu þessu má ráða, að þeir þurfa ekki að raupa af náttúruvísindum sínum, sem kalla hvað eina heimskulegt, er þeir fá ekki gripið með skilningarvitunum, en láta ástæðulausa hleypidóma vera í fyrirrúmi fyrir dómi heilbrigðrar skynsemi.

## 4. grein.

## Eptirgrennslun homöopathanna um sjúkdómana er ólík aðferð margra allopatha, sem þykjast vita en vita þó ekki um eðli og nærstu orsök sjúkdómanna. Dæmi því til sönnunar.

„Homöopatharnir gjöra sjer ekkert far um að þekkja líkamann og frumefni hans“ (sjá Vísindin bls. 2—3). Að þetta sje nú argasta lýgi

getur hverr einn sjeð sem að eins athugar grundvallarreglu þeirra, um hverja talað er í 1. grein að framan. Hvernig ættu þeir að geta fylgt áminnstri reglu, ef þeir grennsluðust ekki sem nákvæmlegast eptir sjúkdóminum í hvert skipti, enda gjöra þeir sjer miklu meira ómak fyrir því en allopatharnir, hverjir opt láta sjer nægja annaðhvert lauslega frásögn eða ómerkilega fyrirspurn um sjúkdóminn, já, þykjast góðir geti þeir heimfært hann til einhvers flokks í sjúkdómafræðinni. Þetta nægir nú homöopöthunum ekki, þeir vilja og þurfa að vita hið sjerstaklega og einkennilega í hverjum sjúkdómi til að geta valið viðeigandi meðöl. Þeir spyrja því um: aldur sjúklingsins, vöxt, geðslag, atvinnu, undanfarna sjúkdóma, hörundskvilla (t. a. m. kláða, útbrot, eitlaveiki o. s. frv.), og hafi þeir átt sjer stað hvernig þeir hafi verið læknaðir; þá um erfðahæfilegleika til sjúkdómsins, lifnaðarhátt fyrir og eptir, þá um aðdraganda og ytra tilefni (t. a. m. kælingu, áreynslu, geðshræringu), ef það er kunnugt, þá um öll sjúkdómseinkenni sem ítarlegast eptir því sem hinn veiki getur bezt lýst þeim. Í lýsingunni undirstrykast þau einkenni sem sjúklingi finnast mest brögð að. Við hvert þeirra skal taka fram, hvert þau versna eða skána á vissum tíma, á nóttu eða degi, af kulda eða hita, kyrrð eða hreifingu, inni eða úti, af mat

eða drykk, við veðra- eða tunglaskipti, af gangi, stöðu eða legu, hvernig þau byrja, frammhaldast eða hvarfla frá aptur, hvar og hvernig tilfinningin er með ýmislegum þar að lútandi atvikum og kringumstæðum. Þá er og ætíð spurt um hin eðlilegu náttúru störf líkamans, t. a. m. matarlist, hægðir, tíðir, andardrátt, svefn, útgufu úr kroppnum (hita, köldu, svita), lífæðarslátt. Við þessa eptirgrennslun um sjúkdóminn eru þar sem því verður við komið notuð þau ráð og áhöld sem læknar hafa við haft á seinni tímum (Percussion og Stethoskop). Til að geta metið gyldi hvers sjúkdómseinkennis, og einkum aðgreint hin upprunalegu einkenni frá hinum sem þar af leiða, þarf að aðspyrja lífsfræðina, sjúkdómafræðina og sundurliðunarfræðina. Þegar nú homöopathar erlendis hafa numið og tekið lærdómspróf í öllum þeim vísindagreinum sem allopathían kennir, þá sjá allir hvað ástæðulaus og illgjörn sú lýgi er, að þeir „þekki ekkert líkamann og frumefni hans“.

Svo mikils sem homöopatharnir meta og stunda allar vísindagreinir læknafræðinnar, eigna þeir þeim þó ekki meira gyldi en þeim ber að rjettu lagi, nje þykjast vita það sem þeir ekki vita. Vegna þess þeir skoða sjúkdómana í þeirri mynd sem náttúran sýnir þeim þá, en forðast allar getgátur um það, sem enginn maður getur vitað með vissu,

þá álasa allopatharnir þeim fyrir, „að þeir þekki ekki hið rjetta eðli og undirrót sjúkdómanna heldur byggi skoðun sína á heilaspuna og ósannindum“. þessu verður nú bezt svarað með orðum allopathanna sjálfra, og skulu menn nú fá að heyra hvað þeir merkustu meðal þeirra segja um þekkingu þeirra á eðli og nærstu orsök sjúkdómanna.

Alla sjúkdómafræði hafa læknarnir hingað til byggt á efna- og náttúrufræði, á gömlu frumefnafræðinni eða lífsfræðinni; þeir hafa of einstrengingslega virt fyrir sjer tauga- eða blóðkerfið sitt í hverju lagi án þess að leita að tilveru sjúkdómanna í hinu lifandi sambandi sem á sjer stað milli hvorstveggja. þeir hafa skoðað hinn veika líkama eins og líflausan (anorganisk) efnahrærigraut, og misst um leið sjónir á sambandinu milli efnanna í lifandi ásigkomulagi. Af þessu hefur leitt, að hver læknir hefur skapað sjer sína hugmynd um sjúkdómseðlið og hina nærstu orsök, sniðna eptir þeirri lærdómsbyggingu, sem honum hefur fundizt bezt, og síðan byggt á þessari skoðun meðferð sína á sjúkdóminum. Sinn hefur því orðið á hverri meiningunni, sem hafa orðið hver annari fráleitari. Til að sannfærast um þetta þarf ekki annað en lesa hinar ólíku ætlanir læknanna um hvers eðlis, t. a. m. gigtin, sóttveikin og cholera sje. Slíka aðferð kalla

nú allopatharnir skynsamlega og vísindalega, þeim er svo umbrotsvert að ákveða eðli sjúkdómsins og skýra hann einhverju nafni, að einn meðal hinna merkustu allopatha sagði í þessu tilliti við lærisveina sína: „það er betra að sjúklingur deyi með nafninu sem læknirinn hefur gefið sjúkdómi hans, heldur en að honum batni án þess!!!

Menn furða sig nú á, sem von er til, að þetta skuli heita vísindi. Hvaða vit getur verið í öðru eins? það er að troða hugarburði sínum inn í náttúruna. Óteljandi dæmi upp á hryggilegar afleiðingar af þessu háttalagi má lesa í sögu læknafræðinnar. Skal hjer að eins geta eins þeirra.

Hinn 31. desember 1829 andaðist yfirlæknisráð og prófessor dr. Ernst von Grossi í München, sem þótti afbragðsmaður og prýði háskólans sama staðar. Beztu allopatharnir í borginni voru hjá honum í banalegunni; þeir sögðu að hann hefði lungnabólgu, og helltu út úr honum á 5 dögum 6 pundum og 6 lóðum af blóði, og brúkuðu þar að auki margar blóðsugur. Sjötta daginn bað hann þá að eiga ekkert við sig, svo hann gæti dáið í ró, en sagði sjálfur, að hann dæi af blóðmissi. þegar líkið var krufið, sást enginn vottur til lungnabólgu. Vinir hans ákærðu læknana, og varð út úr því svo mikil rimma, að þá var eytt meiru af bleki og prent-

svertu en áður af blóði, en engin af læknunum gat hreinsið sig af ákærunni. Þessar getgátur og ætlanir læknanna í stað vissu hefur hinn frægi læknir Girtannir harðlega átalað. „Hverr læknir“, segir hann, „hefur rjett til að fara eptir ætlun sinni, því þar sem engin vissa er, þar er ætlun annars eins góð og hins, þegar tveir læknar hittast hjá sjúklingi sem ekki er hættulega veikur, þá fer þeim álíka og spásagnarmönnunum í Rómaborg forðum: „þeir geta naumast varizt hlátri, er þeir líta hver upp á annan“.

Reil læknir, hvers ritgjörð um sóttirnar þykir vera með þeim beztu, og aðrir fleiri beztu allopathar hafa játað, að þekking á hinu innra eðli sjúkdómsins sje ómöguleg. Orð Reils eru þessi: „Vjer sjáum að eins hinar ytri orsakir til sjúkdómanna, þó ekki ætíð, og seinustu sýnilegu afleiðingar þeirra, þ. e, sjúkdómseinkennin. En um það sem hjer liggur á milli, um hinar margföldu breytingar, sem eiga sjer stað frá því vísir sjúkdómsins myndast, og þar til einkennin koma í ljós, höfum vjer enga hugmynd“. Sami læknir segir enn fremur: „Af því sem nú var drepið á, og af sögu meininganna, sem ávallt hafa skipzt um, getum vjer gengið úr skugga um, að vjer þekkjum ekki

eðli sóttanna, og að meðferð vor á þeim er óvísindaleg og af handahófi. Óteljandi getgátur um eðli sóttanna má lesa í árbókum læknafræðinnar, en þær hafa dáið jafnskjótt og þær hafa fæðzt. Gáfumenn og þverhöfðar hafa gengið svo búnir frá að greiða úr þessari flækju. Margbreytni meininganna sýnir glöggt, að mönnum er enn sem komið er óljóst eðli sóttanna".

Enn yfirgripsmeiri eru þó orð Choularts í tilliti til sjúkdóma yfir höfuð, og kemst hann þannig að orði: „Vjer getum að eins þekkt hina fjarlægari orsök til sjúkdómanna, og einkenni þeirra, en hlekkinn á milli beggja eða næstu orsökina getum vjer ekki þekkt. Það sem er óvissast af öllu í læknisvísindunum, nefnilega vora ímynduðu þekkingu á hinni nærstu orsök, höfum vjer fyrir undirstöðu, og byggjum á henni orsaka og einkennafræðina (Actiologie og Semiotik), sem vjer alla vega lögum og sníðum eptir því sem hæfa þykir undirstöðunni. Vjer ætlum að kveikja ljós af myrkri, en það vill ekki birta, vjer höfum reist hús á sandi meininganna, en það hristist til og frá eins og reyr af vindi skekinn. Oss vantar áreiðanlega þekkingu á sjúkdómunum. Hin innri

upptök sjúkdómsins eru eins óskiljanleg og upptök lífsins. Að raða sjúkdómunum niður í vissa flokka hefur aldrei verið nema til ills eins fyrir sjúkdómafræðina. þetta kalla menn nú skipulegt, en það veldur mesta ruglingi, að skilur það sem saman á, og sameinar það sem ekki á saman. Menn kalla það vísindi, en skuggi þeirra byrgir fyrir oss náttúruna".

þó byggja nú allopatharnir meðferðina á sjúkdómunnm á þessum grundvelli. Geta nú eptirfylgjandi dæmi bezt sýnt, hvernig hún hefur gefizt.

Meðferð allopathanna á gigtinni hefur glögglega sýnt og sannað, hve lítið þeir þekkja eðli hennar. Hjer eru hinir frægustu læknar hver á móti öðrum eins og dagur og nótt. Hver fer eptir sínu höfði; það sem annar lofar, lastar hinn. Til að verja gigtarfloginu ráðleggur Cholmers uppsölumeðal, en Musgrave þar á mót búkhreinsandi meðöl, sem þeir Boerhave og Warner lasta freklega; Stoll og Grant hrósa víni og járnmeðölum; Fothergill Dowers- eða James-dupt og uppsöluvíni með opíum, en Williams vill að gefin sje moschus eða Castoreum í stórskömtum: 20—30 grön 6 hverja stund; Gilbert og van der Heyde ráðleggja sterkar blóðtökur, en Stoll og Mead lasta þær, af því þær skemmi, sem Sydenham líka fellst á; Bar-

then og Vogel ráðleggja að drekka mikið af ísköldu vatni, en Cadet de Voux mikið af heitu; Gianni hælir kaldabaði á gigtveiku staðina, en Buchan að vefja þá í heitri ull. Hjer sjá menn gjörla, að ráðleggingarnar eru hver á móti annari. Ekki hafa læknar heldur orðið á sáttir um matarhæfið. Brown bannar jurtafæðu og alla vatnsdrykki, en ráðleggur að borða kjöt og drekka vín; Derwie hælir vatni til drykkjar og bannar vín; Linné ráðleggur að borða mikið af jarðarberjum; Cullen, sem í þau 60 ár sem hann var læknir, segist ekki hafa getað læknað fótagigt á einum einasta manni, vill engin meðöl brúka, en ráðleggur hreifingu og bannar að borða kjöt. Þó Boerhave, Fr. Hoffmann og van Swieten hafi ritað mikið um gigtina, gátu þeir þó ekki læknað hana í sjálfum sjer, og það er alkunnugt, að hinn nafnfrægi enski læknir Sydenham, sem tekið hefur saman heila bók um gigtina, dó sjálfur úr henni. Gramur yfir þessum ólíku dómum læknanna um gigtina og dugnaðarleysi þeirra í að lækna hana, kemst Girtanner þannig að orði: „það er auðsjeð á öllu, að vjer hvorki þekkjum eðli gigtarinnar, nje höfum tök á að lækna hana, og læknirinn veit álíka mikið um hana og sjúklingurinn sem lætur vitja hans. Vjer þekkjum hana ekki hóti betur en læknar þekktu hana á dögum Hippokratesar.

þetta er nú ávöxturinn af meir en 2000 ára reynslu læknanna"!

En hvað gjörir nú allopatharnir við taugasótt með deyfð og tilfinningarleysi (febris nervosa torpida)? þeir gefa æsandi meðöl í stórskömtum t. a. m. arnica, serpentaria, hvannarót, æsandi olíur, ljósvaka (æther), vín og vínandameðöl, ammoniak, moschus, phosphor, opíum, castoreum, camphoru; hjer að auk: china, beizk meðöl, t. a. m. qvassia, gentiana og svo járnmeðöl; þeir brúka heit og köld böð, spanskflugur, mustarðsumslög, örfandi stólpípur og uppsölumeðöl til tilbreytingar. þetta ráðleggur nú A. G, Richter, og Hufeland nærst um hið sama. Schönleins álit um þessa sótt er svo látandi: „það er naumast nokkur sótt til" — segir hann — „sem læknar hafa eins frábrugðnar meiningar um og þessa. Meðan sumir með Marcúsi lækni í broddi fylkingar hella út blóði svo pundum skiptir, þá þykir sumum vera eina bata vonin að brúka æsandi meðöl og gefa þau þegar í byrjun Förum vjer að leita í meðalafræðinni, þá er varla það meðal til, sem ekki hafi verið reynt við henni. En nú stendur sú grundvallarregla stöðug. þv fleiri meðöl sem brúkuð eru í einu í einni sótt, þess óvissari er batinn, enda hefur reynslan sannað það í þessari sótt, því síðan læknar fóru að fjölga meðöl-

unum hafa fleiri dáið úr henni“. Svona fara nú allopatharnir með eina af hinum hættulegustu sóttum. þeim ber ekki saman og sitt ráðleggur hver. Af því orsakast nú hinn mikli mannadauði, sem Schönlein sjálfur játar að sje eins mikið að kenna læknunum og sóttinni. Hann segir að meðferðin á henni verði að fara eptir einkennunum, og játar einlæglega, að hann þekki ekki eðli hennar. Opíum og kransaugu, sem Richter hrósa, eru að hans dómi gagnslaus og brúkar hann í þeirra stað salmiak og uppsöluvín, en við blóðsókninni blóðsugur. Við spillingu blóðsins gefur hann álún saman við kransaugu, en brúkar útvortis vatnssteypur og bruna.

Er það ekki hörmulegur vottur um hvaða ólag er á lækningavísindunum, þegar sjálfir frægustu oddvitarnir eru sinn á hverju máli um eðli og meðferð sama sjúkdómsins?

þá er nú að minnast á „cholera“, um hverja búið er að semja fjölda ritgjörða, og enn eru menn engu nær en áður um eðli hennar. Sumir halda, að upptök hennar sjeu í mænunni, sumir í tauga-, blóð- eða garnakerfinu, sumir í gallinu eða hörundinu, sumir að hún sje köldu- eða hitasótt, niðurfallssótt, dauðadá, kveisa, lífsýki, garna-útbrot, eitur, o. s. frv. Sumir læknar helltu óspart út blóði og flýttu fyrir dauðanum, sumir gáfu freklega stóra skamta (20 grön

í einu) af kvikasilfri, af hverju fáein grön nægja til að eitra með heilbrigða menn, sumir enn þá annað, og svona gekk það koll af kolli. Dytti einhverjum í hug að stinga upp á einhverju nýju meðali, urðu læknar jafnskjótt upp til handa og fóta að fara að reyna það á aumingja sjúklingunum! því var ekki kyn, þó 52—67 dæu af 100 veikum, eins og allar skýrslur allopathanna sýna og sanna.

það er óþarfi að tilgreina fleiri dæmi því til sönnunar, að læknar þekki ekki eðli sóttanna. Má ske dr. Hjaltalín einn sje þeirra mestur! Hann hefur, eins og kunnugt er, samið merkilega ritgjörð um holdsveikina, og mun því þykjast vita orsök og eðli hennar, þó hefur ekki heyrzt, að hann hafi getað læknað einn einasta holdsveikan, en „svo eru hyggindi sem í hag koma“.

## 5. grein.

## Útbreiðsla homöopathíunnar erlendis þrátt fyrir ofsóknir allopathanna.

Um leið og dr. Hjaltalín fór að sýna sig í að amast við homöopathíunni hjer á landi, byrjaði hann jafnframt á að segja mönnum sögur af henni í útlöndum, og hefur síðan öðru hverju haldið því áfram. Á þessu er auðsjeð, að honum hafa sjálfum fundizt vísindaröksemdir sínar ónýtar, og hefur því ætlað að bæta þær upp með áminnst-

um sögum. Mega það heita vesæl úrræði fyrir vísindamann, að vera að stagla á afgamalli og margtugginni lýgi, sem fjandmenn homöopathanna settu saman um þá fyrir 20—30 árum síðan, þegar homöopathían var að ryðja sjer til rúms, og mótstaðan gegn henni var sem mest af hálfu allopathanna. Enginn meðal hinna betri allopatha erlendis gjörir nú framar svo lítið úr sjer að vera að jórtra slíkar sögur, enda hafa þær engan árangur hjá neinum manni, sem veit af hvaða rótum þær eru sprottnar, og allrasízt hjá þeim, sem þekkja homöopathíu meir en að nafninu. Að öðru leyti geta þær hjer um bil sýnt, af hverjum flokki læknanna, þeim betri eða verri, þeir muni vera, sem halda þeim á lopt, og ekki hafa annað að verjast með til að viðhalda áliti sínu. Dr. Hjaltalín þegir um hin ýmislegu haturs- og hrekkvísisbrögð, sem allopatharnir beittu fyrrum við opinberar lækningatilraunir homöopathanna til að berja niður sannleikann og villa sjónir fyrir stjórnunum, sem skipuðu tilraunirnar. Að margar stjórnir hafa ekki fyr en nú á seinustu næstliðnum árum gefið homöopathíunni gaum, sannar ekki annað en það, að þær hafa orðið að fara eptir tillögum læknaráðanna, en í þeim sitja víðast tómir allopathar, meðal hverra færstir eru þeir sannleiks- og mannvinir eða þrekmenn, að þeir geti

farið að leggja það á sig að stunda homöopathíu, og baka sjer með því óvild sinna líka.

þrátt fyrir þessar mótspyrnur og ofsóknir af hendi allopathanna er þó tala þeirra daglega að fjölga erlendis, sem falla frá allopathíunni, og eru það ekki eingöngu ungir læknar heldur eldri, sem í mörg ár áður hafa verið mikils metnir allopathar. þannig varð dr. M. Müller í Leipzig homöopath eptir að hafa verið allopath í 20 ár, dr. Schnieber eptir 10 ár, dr. Fitzler læknir og náttúrufræðingur í Ilmenau, dr. H. Bethmann og dr. Schweikert, konunglegur skóla- og staðarlæknir í Grimma í Sachsen, allir eptir mörg ár, hirðlæknir og riddari dr. Stegemann í Dorpat eptir 20 ár, heilbrigðisráð dr. Rummel í Petursborg eptir 10 ár, dr. Messerschmidt yfirlæknir í Naumburg eptir mörg ár, dr. Georg í Neapel eins, seinna líflæknir stórhertogans af Toscana, dr. Mühlenbein[1] líflæknir hertogans af Brúnsvík og meðlimur yfirheilbrigðisráðsins sama staðar eptir 33 ár, dr. Stapf í Naumburg

[1]) Dr. Mühlenbein — sem nýlega er dáinn — segir sjálfur frá, að hann í þau 33 ár, sem hann var allopath, hafi fengizt við 75,360 sjúklinga, en í hin 17 sem hann var homöopath við 27,078, eða alls 102,438 sjúklinga. Meðan hann var allopath dóu hjá honum 6—7 af 100 veikum, en ekki nema 1 af hverjum $105\frac{1}{2}$ eptir það hann varð homöopath, (sjá dr. Rosenberg, Fortschritte u. Leistungen der Homöopathie, Leipzig 1843).

eptir mörg ár, dr. G. A. Weber líflæknir hertogans af Solms-Lich og Hohensolm, og dr. Schüler í Stolberg eptir 25 ár, en dr. Hering í Philadelphia eptir 7 ára allopathiska lækninga aðferð. — það væri hægt að margfalda þessa tölu, sem sýnir glöggt, að það eru ekki að eins ungir og óreyndir læknar, heldur margreyndir allopathar sem aðhyllzt hafa homöopathíuna, og allir ljúka upp sama munni um yfirburði hennar yfir allopathíuna.

Einu nýju merkilegu dæmi má samt hjer við bæta, sem bæði sýnir hverju eigin reynsla á homöopathíunni geti til leiðar komið, og líka hvernig meiri hluti allopathanna er mótsnúinn, þegar einhver læknir tekur sig fram um að fylgja sannleikanum. Dr. og prófessor í sjúkrameðferðarfræðinni við háskólann í Tübingen Georg Rapp tók fyrir sig að reyna homöopathíu, og sannfærðist hann af þessum tilraunum svo fullkomlega um yfirburði hennar yfir gömlu aðferðina, að hann 1853 ljet prenta tilraunir sínar, en viti menn! ári síðar eða 1854 komu embættisbræður hans við háskólann því til leiðar, að honum var vikið frá embættinu sakir hans einarðlegu sannleiksjátningar, og af því hann hneigðist að homöopathíunni. Og þó gjörði hann ekki annað en það sem hver samvizkusamur læknir er skyldur að gjöra, því hver læknir, sem vísvitandi vanrækir að útvega sjer betri sann-

fœringu hann syndgar móti vísindunnm og skyldu sinni við sjúklingana. Þeir rangsnúnu menn, sem viljandi hafna þrjózkufullir þeirri sannfæringu, sem reynslan getur veitt, hugsa að þeir hafi brotið sannleikann á bak aptur, en það er öðru nær, því hann ryður sjer til rúms á endanum og sigrar allar mótspyrnur. Dr. Wolfgang Menzel sagði árið 1830: „Það er öld vorri til minnkunar, að homöopathían skuli hafa átt svona örðugt uppdráttar. Allopatharnir hefðu átt að hrekja betur grundvallarreglur hennar og steypa henni fljótar, ellegar þá virða og útbreiða hana betur, en þeir hafa gjört. Eins nytsamlegar uppgötvanir ættu ekki að verða fyrir því á vorri mennta öld, að þjóðirnar skuli missa þær sakir þverúðar og rangsleitni nokkurra manna, sem kallaðir eru oddvitar gömlu læknafræðinnar“.

Samt er nú svo komið, að homöopathían hefur náð fótfestu á mörgum stöðum í hinum menntaða heimi. Víða eru stofnsettir homöopathiskir spítalar annaðhvort af stjórnunum, stórum fjelögum eða efnuðum mannvinum, sem fengið hafa aptur heilsu sína fyrir viðleitni homöopathanna. Að homöopathían komst að háskólunum í Wien og Prag var einkum að þakka heppni hennar í

hinni seinustu „cholera“ sótt. Allopatharnir misstu þá af 100 veikum meir en helminginn, en homöopatharnir ekki nema 8—9 af jafnmörgum. þetta er orðið þjóðkunnugt erlendis þó ekki sje þess getið í stóra tímaritinu sem dr. Hjaltalín segist hafa; þess þarf ekki heldur, þar sem kennsla homöopathíunnar í nefndum háskólum talar fyrir sannleikanum.

Dr. Wilde, sem nú er læknir í Dublin, kemst þannig að orði um heppni homöopathanna í að lækna bráðar sóttir: „Hvað sem mótstöðumenn homöopathanna segja, finn jeg mjer þó skylt að viðurkenna — og er jeg þó ekki homöopath — að sjúkdómar þeir sem jeg sá á homöopathiska spítalanum í Wien voru svo illir viðureignar og svo bráðir, að jeg naumlega hefi sjeð þá annarstaðar jafnvonda, og skýrslurnar sýna að þar deyja þó miklu færri að tiltölu en á allopathisku spítölunum sama staðar. Yfirlæknir í Austurríki dr. Knolz hefur látið prenta skýrslurnar fyrir árið 1838, og sjest af þeim, að 5 eða 6 hafa dáið af 100 veikum á homöopathiska spítalanum, þar sem 8 til 10 hafa dáið af jafnmörgum á allopathisku spítölunum. Skýrslum þessum hefur verið framhaldið í 14 ár eða til ársins 1852 og hafa í öll þessi ár sýnt sig hinir sömu yfirburðir homöopathíunnar, hversu ýmislega sem sóttirnar hafa hagað sjer. Sú mótbára fellur því af sjálfu sjer,

að skýrslurnar hafi verið samdar, þegar sóttirnar voru vægastar“.

Dr. prófessor Henderson kennari í sjúkdómafræði og meðferð sjúkdóma við háskólann í Edinborg hefur og samið skýrslur, sem ljóslega sýna og sanna hið sama og þær næst áminnstu: að fleirum batni á homöopathiska spítalanum þar en hinum, og eru skýrslur þessar gjörðar með allri þeirri nákvæmni og skarpskyggni, sem heimtuð verður, og þær þurfa að bera með sjer til að verða teknar trúanlegar.

Margir dýralæknar erlendis eru farnir að brúka aðferð homöopatha, og þykir þeim gefast ágætlega. Meðal þeirra má telja helzta prófessor dr. Prinz forstöðumann dýralækningaskólans í Dresden, og hinn prússneska dýralækni Th. Träger auk fjölda annara í Sachsen, Thüringen, Baden, Westphalen o. s. frv., eins víða í flestum öðrum löndum hjer í norðurálfunni.

Til frekari sönnunar því, að homöopatharnir sjeu ekki að líða undir lok heldur einmitt að breiðast meir og meir út, skal jeg ekki láta þess ógetið, að stöðugt eru að koma á prent erlendis, auk fjölda tímarita homöopathiskar lækninga- og meðalafræðisbækur í helztu tungum norðurálfunnar samdar af duglegustu læknum, sem í vísindalegu tilliti standa ekki á baki lærðustu allopöthum. Á næstliðnum 10 árum hafa þessar

bækur fjölgað svo óðum að furðu gegnir, sem er talandi vottur um, að þeir fjölga í sama hlutfalli sem leggja stund á homöopathíu, eptir því sem reynslan sannfærir menn betur um nytsemi hennar. Væri hún hugarburður einn og hjátrú, þá hefðu ekki svo margir samvizkusamir vísindamenn ýmsra landa og þjóða tekið sig fram um að verja hana og útbreiða nje unnið það til að baka sjer með því óvild og ofsóknir þeirra sem í móti standa. Hún er orðin til á annan hátt en aðrar lærdómsbyggingar í læknafræðinni, þær er byggðar hafa verið í loptinu, en oltið síðan um koll af því þær vantaði undirstöðuna; hún er sprottin upp af þekkingu á óumbreytanlegu náttúrulögmáli og hefur á þessum grundvelli við birtu náttúruvísindanna og sannfæringarkrapt reynslunnar fest þær rætur meðal þjóðanna, að ósannindi, heimska og spott geta ekki slitið þær upp; hún mun því ekki einungis verða að liði, heldur útbreiðast meir og meir hjá þeim sem leita sannleikans í hreinskilni, sem reyna sjálfir fyrir sjer áður en þeir dæma, og meta þá reynslu meir en ástæðulausan hroka og sjervizku hleypidóma [1].

---

[1]) Eptirtektaverð eru orð hins fræga Hufelands, sem þótt hann væri allopath og í opinberri stöðu, var samt svo frjálslyndur, að hann ljet hlutdrægnislaust í ljósi álit sitt

Af því sem þegar er sagt um röksemdir dr. H. í „Vísindaritinu“ móti homöopöthunum, vona jeg að lesendur geti farið nærri um á hve góðum grundvelli þær muni vera byggðar, og dómur sá er hann byggir á þeim. Jeg hefi þar sem dæmi eru til greind, alstaðar borið fyrir mig orð hinna merkustu allopatha án þess að leyfa mjer að rangfæra þau í nokkru, og svo náttúru- og efnafræðinganna, sem talað hafa fylgislaust og satt um þau atriði, er mjer þóttu svaraverð. Ef homöopatharnir hefðu verið svona berorðir um

---

um homöopathíuna (sjá Hufeland: die Homöopathie, Berlín 1831, S. 4.): „Mjer þótti það“ — segir hann — „ósæmilegt, að þessi nýja fræði væri spottuð og fyrirlitin. Líka varð jeg að bera virðingu fyrir höfundinum (ɔ: Hahnemann), hverjum læknafræðin á svo mikið að þakka vegna hans fyrri ritgjörða. Eins hlaut jeg að virða þá hina frjálslyndu menn, sem könnuðust við að fræði þessi væri á sannleika byggð, meðal hverra jeg einkum til nefni „præcident“ v. Wolf í Warschau, læknisráð dr. Rau í Giessen og læknisráð dr. Wiedemann í München. Seinna gafst og sjálfum mjer færi á að taka eptir fleiri heppnum tilraunum með homöopathisk meðöl, sem hlutu að vekja aðgæzlu mína og sannfæra mig um, að aðferð þessi ynni ekki til fyrirlitningar, heldur væri þess makleg að verða prófuð til hlítar“.

Þegar menn bera nú þetta álit Hufelands saman við sleggjudóma dr. Hjaltalíns í „Vísindaritinu“, þá sjá þeir hver munur er á anda og rithætti beggja þessara lækna, og er það ekki kyn, því hjer er sannarlega mikill „doktora“ munur!

allopathana mundi dr. H. hafa orðið fljótur til að segja þá ljúga það, en nú getur hann það ekki, því það eru orð þeirra manna, sem hafa verið vandari en hann að því sem þeir rituðu. Þau standa með óafmáanlegu letri í árbókum læknafræðinnar, og verða hvorki hrakin af honum nje öðrum, meðan læknavísindin eru ekki komin lengra áleiðis en þau nú eru. Þó náttúru- og efnafræðin hafi leitt margt í ljós, sem áður var hulið, getur hún þó ekki og mun aldrei geta ráðið allar þær gátur, sem lífs og sjúkdómsfræðin bera upp um eðli og nærstu orsök sjúkdómanna og verkanir meðalanna. Þetta hygg jeg fullsannað að framan, og vil að eins geta þess, að allopathar nú dögum erlendis finna sjálfir, að heppni þeirra í að lækna einkum innvortis sjúkdóma hefur síður en ekki orðið samferða framförum náttúru- og efnafræðinnar eða vaxið jafnt þeim. Sannar það aðferð hinna frægustu lækna, sem annaðhvort horfa aðgjörðalausir á hættulega sjúkdóma og vilja engin meðöl brúka, eða rífa blóð úr sjúklingum, eða gefa inn ógurlega stóra meðala skamta. Þetta er nú samheldið í ríki allopathanna opt þegar mest á ríður, þó þeir einir þykist hafa lykil vizkunnar, „en hvert það ríki sem í sjálfu sjer er sundurþykkt mun eyðast“, stendur þar.

Með tilliti til sagna þeirra, sem dr. H. minnist á í „Vísindaritinu“, að við sjera þ. á Hálsi „eigum að hafa óbrigðul meðöl við barnaveikinni og lækna hana viðstöðulaust“, verð jeg að geta þess, að mjer þykir líklegast að hann sjálfur hafi fært þær í stílinn, og haldið þeim síðan á lopt til að skaprauna okkur, þegar hann þóttist fá átyllu fyrir að meðöl okkar dygðu ekki, að sínu leyti eins og þegar hann í þjóðólfi (8. ári bls. 150) svífist ekki að ljúga því, að við höfum nú „komið mönnum fyrir austan fjall til að reyna okkar óbrigðulu meðöl við barnaveikinni“. Tungnamenn og Álptnesingar, sem sóttu til okkar barnameðöl, geta borið um, hvort við höfum troðið þeim upp á þá eða ginnt þá til að taka þau, og eins hvort við höfum kallað þau „óbrigðul“, og ef þeir vilja satt segja — sem jeg ætla að vona, að þeir hafi drengskap til að gjöra opinberlega —, þá hlýtur lýgin að rekast ofan í höfund hennar. þykir mjer óþarfi að eyða fleiri orðum um þetta. En — meðöl okkar eiga eptir sögusögn hans og þjóðólfs að hafa reynzt illa. þessu get jeg nú vel trúað, hafi þau verið brúkuð innan um hin meðölin, ofseint, í óreglu, ellegar þá ekki átt við barnaveiki þá, sem nú gengur syðra. þó er það engin sönnun fyrir því, að homöopathisk meðöl sjeu verkunarlaus. Okkur var ekki send lýsing á veikinni og ekkert um

hana sagt nema að þetta væri barnaveiki. Hjer var því eptir engu að fara nema nafninu, ekki svo mikið um, að við værum þá búnir að sjá ritgjörð „doktorsins“ um veikina okkur til leiðbeiningar. En hvað áttum við að gjöra, þegar sendimenn vildu ekki fara svo búnir, hvað annað, en láta þá, nauðugir viljugir, fá þau meðöl, sem okkur höfðu áður reynzt svo vel, þegar andarteppa á börnum gekk hjer í sýslu árin 1849—51. Vilji hann berja því við, að hún hafi verið „lítilfjörlegt kvef“, þá svara jeg honum: að börn eru ekki vön að deyja úr því, og þá dóu þó hjer börn hjer og hvar, sem ekki fengu meðöl, úr andarteppu, en ekki stend jeg á því, að það hafi verið versta tegund veikinnar. Nú fyrir skemmstu hef jeg fyrst fengið að sjá ritgjörð hans um barnaveikina, en ekki get jeg sjeð af henni með vissu, hver tegundin af þeim 3, sem þar eru nefndar, það muni vera, sem nú gengur syðra á flestum börnum sem veikjast. Hefði hann nú í „Vísindaritinu“ — eins og ritstjóri „Norðra“ mæltist til í vetur í svari sínu til hans — komið með einhver góð ráð, og lýst veikinni betur en gjört er í ritgjörðinni um hana, þegar hann var sjálfur búinn að skoða hana á fleiri börnum rjett í kringum sig eða í næstu húsum í Reykjavík, svo sjezt hefði hvað eiginlega

er sjerstaklega einkennilegt[1] við undanfara, byrjun og framhald hennar, þá mundi það hafa komið sjer vel, svo þeir sem vildu leita meðala, færi veikin að ganga almennt hjer nyrðra, vissu við hverju þeir bæðu um meðöl, því færstir geta í svo bráðri veiki sótt hina lögskipuðu lækna. Í stað þess, að menn hefðu getað vænzt þessa af honum, fer hann í „vísindaritinu“ að vitna til ýmsra lækna í London, París og Vesturheimi, sem eiga að vera frægir af því að lækna barnaveikina, en verður þó ekki að vegi að koma með nein betri ráð við henni en finnast í ritgjörð hans, eptir þessum merku mönnum. En fyrst hann hefur sjálfur sagt, að „fjölda mörgum börnum megi bjarga með hans ráðum, þá væri merkilegt, ef menn fengju seinna að sjá sannorða skýrslu um fjölda þann sem batnað hefði af þeim í fjærliggjandi sveitum; því þó hann hafi hjálpað nokkrum börnum, sem hann hefur sjálfur vitjað og verið hjá, kalla jeg það lítið þrekvirki eptir

---

[1]) Homöopatharnir athuga nákvæmlega alþekktar sóttir, eins og þær hefðu aldrei áður til verið, því þeim ber öllum saman um, að þær sjeu í hvert skipti sem þær ganga með sjerstaklegum blæ, sem engin sjúkdómafræði getur fyllilega lýst eða náð yfir, en einmitt eptir þessu sjerstaklega verður meðalavalið og meðferðin á þeim að fara. Hve ólík var t. a. m. kvefsóttin, sem seinast (1855) gekk, hinum sem gengu 1834 og 1843. Maður þarf ekki að vera læknir til að geta sjeð þetta.

allt raupið; við homöopathisku „fúskararnir“, kynnum líka að geta bjargað einstaka barni, sem við sæum sjálfir, og gætum verið hjá eins og hann.

Hann segir sjer „þætti gaman að fá skýrslu hjá mjer um, hvað til þess komi, að homöopathíunnar sje að engu getið í hinum nýjustu og beztu barnalækningabókum“. Er nokkur von til að höfundar þessara bóka geti um það, sem þeir eru með öllu ófróðir um, sem þeir hvorki hafa sjálfir reynt nje vilja vita nokkuð af að segja? Homöopöthunum sem þó hafa lært allopathíuna, og eru vel kunnugir öllum merkisritum hennar, þykir ekki heldur svo mikið varið í hin allopathisku ráð við barnaveikinni, að þeir í sínum lækningabókum ráði nokkrum til að brúka þau. Þessa vegna segir dr. Franz Hartmann (í hans spec. Therapie acuter und chronischer Krankheiten nach homöopath. Grundsatzen, 3. Aufl., Leipzig 1847—48 S. 437): „Meðferð á þessari veiki (barnaveikinni) er eptir homöopathiskum grundvallarreglum vissari og miklu einfaldari en allopathanna með þeirra margsamsettu meðölum, með reynslu þeirra, sem opt er sjálfri sjer ósamkvæm, og þrætni um hvað allra skynsamlegast muni vera. Þó hafa áhangendur þessa heiðursverða gamla skóla orðið að lítilækka sig til að játa, að nokkur meðöl eigi þó öðrum fremur við veikinni, af því lækningakraptur þeirra er þar svo bersýnilegur“. Jeg

gæti nú nafngreint ein 10—16 meðöl, sem homöopathar brúka við ýmsum myndum barnaveikinnar, ef mjer þætti ekki minnkun að því fyrir dr. Hjaltalín, vegna þess hann þykist vera svo gagnkunnugur homöopathíunni, og því læt jeg það vera.

Læknar vorir hjer í Norður- og Austur-umdæminu hafa enn sem komið er um borið homöopathíuna, af því þeir geta ekki hjálpað öllum sem hjálpar þurfa. þeir hefðu getað bannað hana í þeirra umdæmum, ef þeir hefðu viljað, og ekki þurft að láta dr. Hjaltalín skipa sjer það, en til þess hafa þeir verið of frjálslyndir. Jeg segi þetta ekki af því, að jeg sje að hræsna fyrir þessum heiðurs mönnum, og ekki heldur af því, að mjer finnist það gróðavegur fyrir mig — eins og öfundsjúki presturinn (í Norðra), sem hefur gjört sig að rangeygðum dómara yfir okkur homöopöthunum, ímyndar sjer — að mega halda áfram með homöopathíuna; og jeg væri sjálfsagt hættur við hana vegna þess ófrelsis, gestagangs og tímaspillis sem aðsóknin bakar mjer, ef sóknarmenn mínir og margir fleiri hefðu ekki mælzt til, að jeg gjörði það ekki meðan jeg treysti mjer til þess, og hún yrði ekki alveg bönnuð. Fyrir mitt leyti er mjer öldungis álíka gilt, hvort hún verður leyfð eða bönnuð, en á hinn bóginn skyldi það engan gleðja meir en mig, ef hinir menntuðu læknar vorir vildu gefa þessari lækninga-að-

ferð meiri gaum en þeir hafa gjört hingað til með því að prófa hana sjálfir vandlega, því þá mundu þeir sjá með eigin og ekki annara augum, og sjá allt annað en þeir nú ímynda sjer. Jeg hjelt líka í fyrstu, að homöopathían væri í engu nýt og hneixlaðist á smáskömtunum, en lítil reynsla sýndi mjer brátt að það var heimska að gjöra það, og nú er jeg búinn að fá svo fasta sannfæringu í þessu tilliti, að hvorki spott nje rangir dómar fá upprætt hana.

Að öðru leyti get jeg vel unnt dr. Hjaltalín frægðar þeirrar og hylli, sem hann ávinnur meðal landsmanna og eptirkomendanna með því að ofsækja homöopathana og útrýma þeim, en vilji hann ekki verða ósamkvæmur sjálfum sjer og gjöra sig uppvísan að hlutdrægni, þá verður hann líka að sjá um, að öllum allopathiskum skottulæknum og blóðtökumönnum verði útrýmt, og láta þó hvergi vanta læknishjálp, þegar á henni liggur. Dæmi aðrir um, hvað rjett það muni vera — sem þó enn því miður mun eiga sjer stað, — að hver heimskinginn, er ekkert veit í sjúkdóma eða meðalafræði, má taka meðöl á lyfjabúðum, og brúka þau síðan í vitleysu og af handahófi við sjúklinga. Megi þetta þolast að ósekju meðan enginn kvartar, en homöopathían verði flæmd af landi burt, þá er nú að vísu komið í það horf sem dr. Hjaltalín og „apothekarar“ vorir mundu

helzt vilja, en þá er spurn, hvort með því er betur borgið lífi og heils landsmanna en með hinu, að lofa tímanum að sýna, einkum meðan reglulegum læknum verður ekki fjölgað, hvort homöopathían er alls ónýt eða ekki.

Það er nú í fyrsta og skal líka verða í seinasta sinni sem jeg svara dr. Hjaltalín. Jeg þarf ekki framar en búið er að tala um rit hans gegn homöopöthunum og sjerílagi um „Vísindaritið". Það má segja um það í stuttu máli, að það er steypt öldungis í sama móti og „eineygði Fjölnir" hans sællrar minningar; og eins og hánn hefur fengið sinn dóm, svo mun það fá sinn líka.

Grenjaðarstöðum í aprílmán. 1857.

**M. J.**